hét at etja hesti sínum, ok kváðu vér á nær þat hestavíg skyldi vera. Fanst þat á í öllu, at honum þótti sik skorta við oss — ok baðst hann undan vandræðum". „Þat mun oft á finnast", segir Hildigunnr, „at Gunnarr er seinþreyttr til vandræða enn harðdrægr, ef hann má eigi undan komast". Gunnarr reið at finna Njál ok sagði honum hestaatit ok hversu orð fóru með þeim — „eða hversu ætlar þú at fari hestaatit?" „Þú munt hafa meira hlut", sagði Njáll, „enn þó mun hér margs manns bani af hljótast." „Mun nakkvat hér af hljótast minn bani?" segir Gunnarr. „Ekki mun þat af þessu hljótast", segir Njáll, „enn þó munu þeir muna fornan fjandskap — ok nýjan munu þeir at þér færa; ok munt þú ekki annat mega enn hrökkva við". Gunnarr reið þá heim.

59. Nú spyrr Gunnarr lát Höskuldar mágs síns. Fám nóttum síðar varð léttari Þorgerðr at Grjótá dóttir Hallgerðar, enn kona Þráins, ok kom þar til sveinbarn. Sendi hon þá mann til móður sinnar ok bað hana ráða fyrir, hvárt heita skyldi eftir Glúmi föður hennar eða eftir Höskuldi móðurföður hennar. Hon bað at Höskuldr skyldi heita. Var þá þat namn gefit sveininum. Gunnarr ok Hallgerðr áttu tvá sonu. Hét annarr Högni, enn annar Grani. Högni var maðr gervilegr ok hljóðlyndr, tortryggr ok sannorðr. — Nú ríða menn til hestavígs, ok er

þar komit fjölmenni mikit. Var þar Gunnarr ok bræðr hans ok Sigfússynir, Njáll ok synir hans allir. Þar var kominn Starkaðr ok synir hans, Egill ok hans synir. Þeir ræddu til Gunnars, at þeir myndi saman leiða hrossin. Gunnarr svaraði at þat væri vel. Skarpheðinn mælti: „Vill þú, at ek keyra hest þinn, Gunnarr frændi?“ „Eigi vil ek þat“, segir Gunnarr. „Hér er þó betr ákomit“, segir Skarpheðinn, „vér erum hvárirtveggju hávaðamenn“. „Þér munuð fátt mæla“, segir Gunnarr, „eða gera, áðr enn yðr munu vandræði af standa; enn hér mun verða um seinna, þó at alt komi fyrir eitt“. Síðan váru hrossin saman leidd. Gunnarr bjó sik at keyra, enn Skarpheðinn leiddi fram hestinn. Gunnarr var í rauðum kyrtli ok hafði digrt silfrbelti um sik ok hestastaf mikinn í hendi. Síðan rennast at hestarnir ok bítast lengi svá at ekki þurfti á at taka, ok var þat hit mesta gaman. Þá báru þeir saman ráð sitt Þorgeirr ok Kolr, ot þeir myndi hrinda hesti sínum, þá er á rynnist hestarnir, ok vita, ef Gunnarr felli fyrir. Nú rennast á hestarnir, ok hlaupa þeir Þorgeirr ok Kolr þegar á lend hesti sínum ok hrinda sem þeir megu. Gunnarr hrindr nú ok sínum hesti í móti — ok verðr þar skjótr atburðr, sá, at þeir Þorgeirr fellu báðir á bak aftr ok hestrinn á þá ofan. Þeir spretta upp skjótt ok hlaupa at Gunnari. Gunnarr varpar

sér undan ok þrífr Kol ok kastar honum á völlinn svá at hann liggr í óviti. Þorgeirr Starkaðarson laust hest Gunnars svá at út hljóp augat. Gunnarr laust Þorgeir með stafnum — fellr Þorgeirr í óvit. Enn Gunnarr gengr til hests síns ok mælti við Kolskegg: „Högg þú hestinn — ekki skal hann lifa við örkuml". Kolskeggr hjó höfuð af hestinum. Þá komst á fætr Þorgeirr ok tók vápn sín ok vildi at Gunnarri. Enn þat varð stöðvat, ok varð þröng mikil. Skarpheðinn mælti: „Leiðist mér þóf þetta — ok er miklu drengilegra, at menn vegist með vápnum". Skarpheðinn kvað vísu:

(19) Hér verðr þröng á þingi,
þóf gengr langt úr hófi,
síð mun sætt með þjóðum
sett; leiðisk mér þetta.
Rakklegra er rekkum
rjóða vápn í blóði;
víst tem ek gráð hinn geysta
gjarna ylgjar barni.

Gunnarr var kyrr, svá at honum helt einn maðr, ok mælti ekki orð þat er áfátt væri. Njáll mælti, at þeir skyldi sættast ok setja grið. Þorgeirr kvaðst hvártki vildu selja grið né taka — kvaðst heldr vilja Gunnar dauðan fyrir höggit. Kolskeggr mælti: „Fastara hefir Gunnarr staðit, enn hann hafi fallit fyrir orðum einum — ok mun enn svá". Nú ríða menn af hestaþingi — hverr til síns heima. Veita þeir Gunn-

ari engar atfarar. Liðu svá þau misseri. Á þingi um sumarit fann Gunnarr Óláf pá mág sinn, ok bauð Óláfr honum heim, enn bað hann þó vera varan um sik — „því at þeir munu gera þér slíkt ilt, er þeir megu — ok far þú fjölmennr jafnan“. Óláfr réð honum mörg heilræði, ok mæltu þeir til hinnar mestu vináttu með sér.

60. Ásgrímr Elliða-Grímsson hafði mál at sækja á þinginu. Þat var erfðamál. Málinu átti at svara Úlfr Uggason. Ásgrími tókst svá til, sem sjaldan var vant, at vörn var í máli hans. Enn sú var vörnin, at hann hafði nemnt fimm búa, þar sem hann átti níu. Nú hafa þeir þetta til varnar. Þá mælti Gunnarr: „Ek mun skora þér á hólm, Úlfr Uggason, ef menn skulu eigi ná af þér réttu máli“. „Ekki á ek þetta við þik“, segir Úlfr. „Fyrir hitt mun nú þó ganga“, segir Gunnarr, „ok myndi þat Njáll ætla ok Helgi vinr minn, at ek mynda hafa nakkvara vörn í máli með þér, Ásgrímr, ef þeir væri eigi við“. Lauk svá því máli, at Úlfr hlaut at greiða féit alt. Þá mælti Ásgrímr til Gunnars: „Heim vil ek þér bjóða í sumar, ok jafnan skal ek með þér vera í málaferlum, enn aldri í móti þér“. Ríðr Gunnar heim af þingi. Litlu síðar fundust þeir Njáll. Njáll bað Gunnar vera varan um sik — kvað sér sagt, at þeir undan Þríhyrningi ætluðu at

fara at honum — ok bað hann aldri fara við fámenni ok hafa jafnan vápn sín. Gunnarr kvað svá vera skyldu. Hann sagði Njáli, at Ásgrímr hefði boðit honum heim, — „ok ætla ek at fara nú í haust“. „Lát þú enga menn vita“, segir Njáll, „áðr þú ferr, eða hversu lengi þú ert í brautu. Enn ek býð þér þó, at synir mínir ríði með þér — ok mun eigi þá á þik ráðit“. Réðu þeir þat þá með sér. Nú líðr á sumarit til átta vikna. Þá mælti Gunnarr við Kolskegg: „Bú þú ferð þína, því at nú skulu vér ríða til heimboðs í Tungu“. „Skal nú ekki orð gera Njálssonum?“ sagði Kolskeggr. „Ekki“, sagði Gunnarr, „eigi skulu þeir hljóta vandræði af mér“.

61. Þeir ríða þrír saman Gunnarr ok bræðr hans. Gunnarr hafði atgeirrinn ok sverðit Ölvisnaut, enn Kolskeggr hafði saxit. Hjörtr hafði ok alvæpni. Riðu þeir nú í Tungu. Ásgrímr tók vel við þeim, ok váru þeir þar nakkvara hríð. Þá lýstu þeir yfir því, at þeir ætluðu þá heim at fara. Ásgrímr gaf þeim góðar gjafar ok bauð at ríða með þeim austr. Gunnarr kvað engis mundu við þurfa, ok fór hann eigi. — Sigurðr svínhöfði hét maðr. Hann kom undir Þríhyrning. Hann bjó við Þjórsá. Hann hafði heitit at halda njósn um ferðir Gunnars. Hann sagði þeim nú til ferða hans ok kvað ekki mundu verða vænna enn svá — „er hann

er við hinn þriðja mann". „Hversu marga munu vér menn þurfa", segir Starkaðr, „í fyrirsát?" „Rýrt mun verða fyrir honum smámennit", segir Sigurðr, „ok eigi er ráð at hafa færi enn þrjá tigu manna". „Hvar skulu vér fyrir sitja?" segir Starkaðr. „Við Knafahóla", segir Sigurðr, „þar sér eigi fyrr enn at er komit". „Far þú í Sandgil", segir Starkaðr, „ok seg Agli, at þeir búist þaðan fimtán —, enn vér munum koma heðan aðrir fimtán til Knafahóla". Þorgeirr mælti til Hildigunnar: „Þessi hönd skal þér sýna Gunnarr dauðan í kveld". „Enn ek get", segir hon, „at þú berir lágt höfuðit af ykkrum fundi". Þeir fara fjórir feðgar undan Þríhyrningi ok ellifu menn aðrir — fóru þeir til Knafahóla ok biðu þar. Sigurðr svínhöfði kom í Sandgil ok mælti: „Ek em sendr hingat af Starkaði ok sonum hans at segja þér, Egill, at þér feðgar farið til Knafahóla at sitja fyrir Gunnari". „Hversu margir skyldu vér fara?" segir Egill. „Fimtán með mér", segir Sigurðr. Kolr mælti: „Nú ætla ek mér í dag at reyna við Kolskegg". „Mjök þykki mér þú ætla þér", segir Sigurðr. Egill bað austmenn sína fara. Þeir kváðust engar sakar eiga við Gunnar — „enda þarf hér mikils við", segir Þórir, „er fjöldi manns skal fara at þrimr mönnum". Gekk þá Egill í braut ok var reiðr. Húsfreyja mælti þá til austmannsins: „Illa hefir Guðrún

dóttir mín brotit odd af oflæti sínu ok legit hjá þér, er þú skalt eigi þora at fylgja mági þínum — ok munt þú vera ragr maðr“, segir hon. „Fara mun ek“, segir hann, „með bónda þínum, ok mun hvárrgi okkarr aftr koma“. Síðan gekk hann til Þorgríms félaga síns ok mælti: „Tak þú við kistuluklum mínum, því at ek mun þeim eigi lúka oftar. Bið ek, at þú eignist slíkt af fé okkru, sem þú vill. Enn far utan ok ætla ekki til hefnda eftir mik. Enn ef þú ferr eigi utan, þá verðr þat þinn bani“. Austmaðrinn tekr vápn sín ok ræðst í flokk með þeim.

62. Nú er þar til máls at taka, at Gunnarr ríðr austr yfir Þjórsá. Enn er hann kom skamt frá ánni, syfjaði hann mjök, ok bað hann þá æja þar. Þeir gerðu svá. Hann sofnaði fast ok lét illa í svefni. Kolskeggr mælti: „Dreymir Gunnarr nú“. Hjörtr mælti: „Vekja vilda ek hann“. „Eigi skal þat“, segir Kolskeggr, „ok skal hann njóta draums síns“. Gunnarr lá mjök langa hríð. Hann varp af sér skildinum, er hann vaknaði, ok var honum orðit heitt mjök. Kolskeggr mælti: „Hvat hefir þik dreymt, frændi?“ „Þat hefir mik dreymt“, segir Gunnarr, „at ek mynda eigi riðit hafa ór Tungu svá fámennr, ef mik hefði þá þetta dreymt“. „Seg þú okkr draum þinn“, segir Kolskeggr. Gunnarr kvað:

(20) Þykkjumk flýtir flokka
fámennr riðinn sennu
— víst brá ek hrafns á hausti
hungri — braut ór Tungu,
því at, eldveitir öldu,
ek fýsumk þat lýsa:
— merg etr valr frá vargi
villr — dreymdi mik illa.

„Þat dreymdi mik“, segir Gunnarr, „at ek þóttumst ríða fram hjá Knafahólum. Þar þóttumst vit sjá varga mjök marga, ok sóttu þeir allir at mér, enn ek snera undan fram at Rangá. Þá þótti mér þeir sækja at öllum megin, enn ek vörðumst. Ek skaut alla þá er fremstir váru, þar til er þeir gengu svá at mér, at ek mátti eigi boganum við koma. Tók ek þá sverðit ok vá ek með annarri hendi, enn lagði með atgeirinum annarri hendi. Hlífði ek mér þá ekki — ok þóttumst ek þá eigi vita, hvat mér hlífði. Drap ek þá marga vargana ok þú með mér, Kolskeggr. Enn Hjört þótti mér þeir hafa undir ok slíta á honum brjóstit ok hafði einn hjartat í munni sér. Enn ek þóttumst verða svá reiðr, at ek hjó varginn í sundr fyrir aftan bóguna, ok eftir þat þóttu mér stökkva vargarnir. Nú er þat ráð mitt, Hjörtr frændi, at þú ríðir vestr aftr í Tungu“. „Eigi vil ek þat“, segir Hjörtr, „þótt ek vita vísan bana minn, þá vil ek þér fylgja“. Síðan riðu þeir ok kvámu austr hjá Knafahólum. Þá mælti

10

Kolskeggr: „Sér þú, frændi, mörg spjót koma upp hjá hólunum ok menn með vápnum?“ „Ekki kemr mér þat at óvörum“, segir Gunnarr, „at draumr minn sannist“. „Hvat skal nú til ráðs taka?“ segir Kolskeggr, „ek get, at þú vilir eigi renna undan þeim“. „Ekki skulu þeir at því eiga at spotta“, segir Gunnarr, „enn ríða munu vér fram at Rangá í nesit. Þar er vígi nakkvat“. Ríða þeir nú fram í nesit ok bjoggust þar við. Kolr mælti, er þeir riðu hjá fram: „Hvárt skal nú renna, Gunnarr?“ Kolskeggr mælti: „Seg þú svá fremi frá því, er sjá dagr er allr“.

63. Nú eggjar Starkaðr sína menn. Snúa þeir þá fram í nesit at þeim. Sigurðr svínhöfði fór fyrstr ok hafði törguskjöld einbyrðan, enn sviðu í annarri hendi. Gunnarr sér hann ok skýtr til hans af boganum. Hann brá upp við skildinum, er hann sá örina hátt fljúga, ok kom örin í gegnum skjöldinn ok í augat svá at út kom í hnakkann — ok varð þat víg fyrst. Annarri ör skaut Gunnarr at Úlfheðni, ráðamanni Starkaðar, ok kom sú á hann miðjan, ok fell hann fyrir fætr búanda einum, enn búandinn fell um hann þveran. Kolskeggr kastar til steini, ok kom í höfuð búandanum, ok varð þat hans bani. Þá mælti Starkaðr: „Ekki mun oss þetta duga, at hann komi boganum við — ok göngum at fram vel ok snarplega“. Síð-

an eggjaði hverr annan. Gunnarr varði sik með boganum, meðan hann mátti. Síðan kastaði hann niðr boganum. Tók hann þá atgeirrinn ok sverðit ok vegr með báðum höndum. Er bardaginn þá hinn harðasti. Gunnarr vegr þá drjúgan menn ok svá Kolskeggr. Þá mælti Þorgeirr Starkaðarson: „Ek hét at færa Hildigunni höfuð þitt, Gunnarr". Þá kvað Gunnarr vísu:

(21) Hykk, at þat muni þikkja
þvengláðs Njörun engu
dýnu, darra reynir
driftar, máli skifta.
Móins jarðar gakk þú myrðir
meir fram í dyn geira,
leygs ef reið skal ráða
Rínar höfði mínu.

„Ekki mun henni þat þykkja neinu varða, hvárt þú efnir þat eða eigi", segir Gunnarr, „enn þó munt þú nær ganga hljóta, ef þú skalt þat meðal handa hafa". Þorgeirr mælti þá við bræðr sína: „Hlaupu vér at honum fram allir senn. Hann hefir engan skjöld, ok munu vér hafa ráð hans í hendi". Þeir hljópu fram Börkr ok Þorkell ok urðu skjótari enn Þorgeirr. Börkr höggr til Gunnars. Gunnarr laust við atgeirinum svá hart, at sverðit hraut úr hendi Berki. Sér hann þá til annarrar handar Þorkel standa í höggfæri við sik. Gunnarr stóð nakkvat höllum fæti. Hann sveiflaði þá til sverðinu, ok

kom á hálsinn Þorkatli, ok fauk af höfuðit. Kolr mælti Egilsson: „Láti mik fram at Kolskeggi. Ek hefi þat jafnan mælt, at vit myndim mjök jafnfærir til vígs“. „Slíkt megu vit nú reyna“, segir Kolskeggr. Kolr leggr til hans spjóti. Kolskeggr vá þá mann ok átti sem mest at vinna, ok kom hann eigi fyrir sik skildinum, ok kom lagit í lærit utanfótar, ok gekk í gegnum. Kolskeggr brást við fast ok óð at honum ok hjó með saxinu á lærit ok undan fótinn ok mælti: „Hvárt nam þik eða eigi?“ „Þess galt ek nú“, segir Kolr, „er ek var berskjaldaðr“, ok stóð nakkvara stund á hinn fótinn ok leit á stúfinn. Kolskeggr mælti: „Eigi þarft þú at líta á, jafnt er sem þér sýnist, af er fótrinn“. Kolr fell þá dauðr niðr. Enn er þetta sér Egill faðir hans, hleypr hann at Gunnari ok höggr til hans. Gunnarr leggr í móti atgeirinum, ok kom á Egil miðjan. Gunnarr vegr hann upp á atgeirinum ok kastar honum út á Rangá. Þá mælti Starkaðr: „Alls vesall ert þú, Þórir austmaðr, er þú sitr hjá, enn nú er veginn Egill húsbúandi þinn ok mágr“. Þá spratt upp austmaðrinn ok var reiðr mjök. Hjörtr hafði orðit tveggja manna bani. Austmaðrinn hleypr at honum ok höggr framan á brjóstit ok þar á hol. Hjörtr fell þá þegar dauðr niðr. Gunnarr sér þetta ok varpar sér skjótt til höggs við austmanninn ok sníðr hann í sundr

í miðju. Litlu síðar skýtr Gunnarr til Barkar atgeirinum, ok kom á hann miðjan ok í gegnum hann ok niðr í völlinn. Þá höggr Kolskeggr höfuð af Hauki Egilssyni, enn Gunnarr höggr hönd af Óttari í ölnbogabót. Þá mælti Starkaðr: „Flýjum nú. Ekki er við menn um at eiga“. Gunnarr mælti: „Þat mun ykkr feðgum þykkja ilt til frásagnar, ef ekki skal mega sjá á ykkr, at þit hafið í bardaga verit“. Síðan hljóp Gunnarr at þeim feðgum ok veitti þeim áverka. Eftir þat skildu þeir; ok höfðu þeir Gunnarr marga þá særða, er undan heldu. Á fundinum létust fjórtán menn, enn Hjörtr hinn fimtándi. Gunnarr reiddi Hjört heim á skildi sínum, ok var hann þar heygðr. Margir menn hörmuðu hann, því at hann var vinsæll. Starkaðr kom ok heim, ok græddi Hildigunnr sár þeira Þorgeirs ok mælti: „Yðr væri mikit gefanda til, at þér hefðið ekki ilt átt við Gunnar“. „Svá væri þat“, segir Starkaðr.

64. Steinvör í Sandgili bað Þorgrím austmann vera fyrir fjárforráðum sínum ok fara ekki utan ok muna svá lát félaga síns ok frænda. Hann svaraði: „Þat spáði mér Þórir félagi minn, at ek munda falla fyrir Gunnari, ef ek væra hér á landi; ok mun hann þat vitat hafa, er hann vissi dauða sinn fyrir“. Hon mælti: „Ek mun gefa þér til Guðrúnu dóttur mína ok féit alt at helmingi við mik“. „Eigi vissa ek, at

þú myndir þat svá miklu kaupa“, segir hann. Síðan kaupa þau þessu, at hann skal fá hennar; ok var þá boð þegar þat sumar. Gunnarr ríðr til Bergþórshváls ok með honum Kolskeggr. Njáll var úti ok synir hans — ok gengu í móti Gunnari ok fögnuðu þeim vel. Síðan gengu þeir á tal. Gunnarr mælti: „Hingat em ek kominn at sækja at þér traust ok heilræði“. Njáll sagði, at þat var skylt. Gunnarr mælti: „Ek hefi ratat í vandræði mikil ok drepit marga menn — „ok vil ek vita, hversu þú vill vera láta“. „Þat munu margir mæla“, segir Njáll, „at þú hafir mjök verit til neyddr. Enn nú skalt þú gefa mér tóm til ráðagerðar“. Njáll gekk í braut einn saman ok hugsaði ráðit ok kom aftr ok mælti: „Nú hefi ek nakkvat hugsat málit, ok lízt mér sem þetta muni nakkvat með harðfengi ok kappi verða at gera. Þorgeirr hefir barnat Þorfinnu frændkonu mína, ok mun ek selja þér í hendr legorðssökina. Aðra skóggangssök sel ek þér á hendr Starkaði, er hann hefir höggvit í skógi mínum á Þríhyrningshálsum. Ok skalt þú sækja þær sakar báðar. Þú skalt fara þangat sem þér börðuzt ok grafa upp hina dauðu, ok nemna vátta at benjum ok óhelga þá alla hina dauðu fyrir þat er þeir fóru með þann hug til fundar við þik at veita þér ákvámur ok bráðan bana ok bræðrum þínum. Enn ef þetta er prófat á þingi, ok því sé

við lostit, at þú hafir áðr lostit Þorgeir ok megir fyrir því hvártki sækja þína sök né annarra, þá mun ek svara því máli ok segja, at ek helgaða þik á Þingskálaþingi, svá at þú skyldir bæði mega sækja þitt mál ok annarra; ok mun þá verða svarat máli því. Þú skalt ok finna Tyrfing í Berjanesi, ok skal hann selja þér sök á hendr Önundi í Trollaskógi, er mál á eftir Egil bróður sinn". Reið þá Gunnarr heim fyrst. Enn nökkurum nóttum síðar riðu þeir Njálssynir ok Gunnarr þangat til sem líkin váru ok grófu þá upp alla, sem jarðaðir váru. Stefndi Gunnarr þeim þá öllum til óhelgi fyrir atför ok fjörráð ok reið heim eftir þat.

65. Þetta haust hit sama kom út Valgarðr hinn grái ok fór heim til Hofs. Þorgeirr fór at finna þá Valgarð ok Mörð ok sagði, hver firn váru, er Gunnarr skyldi hafa óhelgat þá alla, er hann hafði vegit. Valgarðr kvað þat vera mundu ráð Njáls, ok þó eigi öll upp komin, þau sem hann myndi ráða honum. Þorgeirr bað þá feðga liðveizlu ok atgöngu. Enn þeir fóru lengi undan ok mæltu til fé mikit at lyktum. Var þat í ráðagerðum, at Mörðr skyldi biðja Þorkötlu dóttur Gizurar hvíta, ok skyldi Þorgeirr þegar ríða vestr um ár með þeim Valgarði ok Merði. Annan dag eftir riðu þeir tólf saman ok kvámu til Mosfells, ok var þeim þar vel fagnat — váru þar um nóttina. Vekja þeir

þá til við Gizur um bónorðit. Lýkr svá með þeim, at ráðin skyldu takast, ok skyldi boð vera á hálfs mánaðar fresti at Mosfelli. Ríða þeir heim. Síðan fjölmenna þeir feðgar mjök til boðsins — var þar ok mart fyrir boðsmanna, — ok fór þat vel fram. Fór Þorkatla heim með Merði ok var fyrir búi, enn Valgarðr fór utan um sumarit. Mörðr eggjar Þorgeir á um málatilbúnað við Gunnar. Þorgeirr fór at finna Önund í Trollaskógi — biðr hann nú at búa til vígsmálit Egils bróður síns ok sona hans, — „enn ek mun búa til vígsmál bræðra minna ok áverkamál mitt ok föður míns". Önundr kvaðst þess albúinn. Fara þeir þá ok lýsa vígunum ok kveðja níu vættvangsbúa. Þessi málatilbúnaðr spurðist til Hlíðarenda. Ríðr Gunnarr þá at finna Njál ok segir honum ok spurði, hvat hann vildi þá láta at gera. „Nú skalt þú", segir Njáll, „stefna vættvangsbúum ok nábúum saman ok nemna vátta fyrir búum ok kjósa Kol til veganda at vígi Hjartar bróður þíns —því at þat er rétt. Síðan skalt þú lýsa víginu á hendr Kol, þó at hann sé dauðr. Þá skalt þú nemna þér vátta ok kveðja búa alþingisreiðar at bera um þat, hvárt þeir væri í atvist ok atsókn þá er Hjörtr var veginn. Nú skalt þú ok stefna Þorgeiri um legorðssökina ok svá Önundi í Trollaskógi um sökina Tyrfings". Gunnarr fór með öllu sem Njáll kendi

ráð til. Þetta þótti mönnum undarlegr málatilbúnaðr. Fara nú þessi mál til þings. Gunnarr reið til þings ok Njáll ok synir hans ok Sigfússsynir. Gunnarr hafði sendan mann mágum sínum, at þeir skyldi ríða til þings ok fjölmenna mjök, ok kvað sér þetta mundu vera mjök harðdrægt. Þeir fjölmentu mjök vestan. Mörðr reið til þings ok Rúnólfr úr Dal ok þeir undan Þríhyrningi ok Önundr ór Trollaskógi.

66. Enn er þessir menn kvámu til þings, ganga þeir í lið með Gizuri hvíta ok Geir goða. Gunnarr ok Sigfússsynir ok Njálssynir gengu allir í einum flokki ok fóru svá snúðigt, at menn urðu at gæta sín, ef fyrir váru, at eigi felli. Ok var ekki jafntíðrætt um alt þingit sem um málaferli þessi hin miklu. Gunnarr gekk til móts við mága sína, ok fögnuðu þeir Óláfr honum vel. Þeir spurðu Gunnar um fundinn. Enn hann segir þeim frá gerla ok bar öllum vel söguna, ok sagði þeim, hvat hann hafði síðan at gert. Óláfr mælti: „Mikils er vert, hversu Njáll stendr þér fast um alla ráðagerð“. Gunnarr kvaðst aldri þat mundu launat geta, enn beiddi þá liðveizlu ok atgöngu. Þeir kváðu þat skylt vera. Fara nú málin hvártveggi í dóm. Flytja nú hvárir sitt mál fram. Mörðr spurði, hví sá maðr skyldi hafa mál fram, er áðr hafði unnit sér til óhelgi við Þorgeir, svá sem Gunnarr var. Njáll svaraði: „Vart þú á Þingskála-

þingi um haustit?“ „Var ek víst“, segir Mörðr. „Heyrðir þú“, segir Njáll, „at Gunnarr bauð honum alsætti?“ „Heyrða ek víst“, segir Mörðr. „Þá friðhelgaða ek Gunnar“, segir Njáll, „til allra löglegra mála“. „Rétt er þetta“, segir Mörðr, „enn hví sætti þat, at Gunnarr lýsti vígi Hjartar á hendr Kol, þar sem austmaðrinn vá hann?“ „Rétt var þat“, segir Njáll, „þar sem hann kaus hann til veganda fyrir váttum“. „Rétt mun þetta víst“, segir Mörðr, „enn fyrir hvat stefndi Gunnarr þeim öllum til óhelgi, er fallit höfðu?“ „Eigi þarft þú þessa at spyrja“, segir Njáll, „þar sem þeir fóru allir til áverka ok manndrápa“. „Eigi kom þat fram við Gunnar“, segir Mörðr. „Bræðr Gunnars váru þeir Hjörtr ok Kolskeggr“, segir Njáll, „ok hafði annarr bana, enn annarr sár á sér“. „Lög hafið þér at mæla“, segir Mörðr, „þó at hart sé undir at búa“. Þá gekk fram Hjalti Skeggjason ór Þjórsárdal ok mælti: „Ekki hefi ek hlutazt til málaferla yðvarra; enn nú vil ek vita, hvat þú vill, Gunnarr, fyrir mín orð gera ok vináttu“. „Hvers beiðist þú?“, segir Gunnarr. „Þess“, segir Hjalti, „at þú leggir málin öll til jafnaðardóms ok dæmi góðir menn“. Gunnarr mælti: „Þá skalt þú aldri vera í móti mér, við hverja sem ek á um“. „Því vil ek heita þér“, segir Hjalti. Eftir þat átti hann hlut at við mótstöðumenn Gunnars ok kom því við, at þeir

sættust allir. Ok eftir þat veittu hvárir öðrum trygðir. Enn fyrir áverka Þorgeirs kom legorðssökin, enn skógarhöggit fyrir áverka Starkaðar. Bræðr Þorgeirs váru bættir hálfum bótum, enn hálfar fellu niðr fyrir tilför við Gunnar. Enn jafnt skyldi vera víg Egils ok sökin Tyrfings. Fyrir víg Hjartar skyldi koma víg Kols ok austmannsins. Þá váru aðrir bættir hálfum bótum. Njáll var í gerð þessi ok Ásgrímr Elliða-Grímsson ok Hjalti Skeggjason. Njáll átti fé mikit undir Starkaði ok þeim í Sandgili, ok gaf hann þat alt Gunnari til bóta þessa. Svá átti Gunnarr marga vini á þingi, at hann bætti þá þegar upp vígin — enn gaf gjafar mörgum höfðingjum þeim er honum höfðu lið veitt, ok hafði hann af hina mestu sæmd af málinu. Ok urðu allir á þat sáttir, at engi væri hans jafningi í Sunnlendingafjórðungi. Reið Gunnarr heim af þingi ok sitr nú um kyrt. Enn þó öfunduðu mótstöðumenn hans mjök hans sæmd.

67. Nú er at segja frá Þorgeiri Otkelssyni. Hann gerðist mannaðr vel, mikill ok sterkr, trúlyndr ok óslægr ok nakkvat talhlýðinn. Hann var vinsæll af hinum beztum mönnum ok ástsæll af frændum sínum. Einu hverju sinni hefir Þorgeirr Starkaðarson farit að finna Mörð frænda sinn. „Illa uni ek við“, segir hann, „málalok þau sem orðit hafa með oss Gunnari. Enn ek hefi

keypt at þér liðveizlu, meðan vit værim uppi báðir. Vil ek nú, at þú hugsir nakkvara ráðagerð þá er Gunnari megi mein at vera, ok leggst nú djúpt. Mæli ek því svá bert, at ek veit, at þú ert hinn mesti óvinr Gunnars ok svá hann þinn. Skal ek miklu auka sæmd þína, ef þú sér vel fyrir". „Sýnist þat jafnan", segir Mörðr, „at ek em fégjarn, enda mun svá enn. Ok er vant fyrir at sjá, at þú sér eigi griðníðingr eða trygðarofsmaðr, enn þú komir þó þínu máli fram. Enn þat er mér sagt, at Kolskeggr ætli mál fram at hafa ok rifta fjórðunginn í Móeiðarhváli, er föður þínum var goldinn í sonarbætr. Hefir hann mál þetta tekit af móður sinni; ok er þetta ráð Gunnars, at gjalda lausa fé, enn láta eigi landit. Skal þess at bíða, er þetta gengr fram, ok kalla hann þá rjúfa sætt á yðr. Hann hefir ok tekit sáðland af Þorgeiri Otkelssyni ok rofit svá sætt á honum. Skalt þú fara at finna Þorgeir Otkelsson ok koma honum í málit með þér ok fara at Gunnari. Enn þó at í bresti nakkvat um þetta ok fáið þér hann eigi veiddan, þá skuluð þér þó fara at honum oftar. Mun ek segja þér, at Njáll hefir spát Gunnari ok sagt fyrir um æfi hans — ef hann vægi í hinn sama knérunn oftar enn um sinn, at þat mundi honum bráðast til bana. Bæri þat saman, at hann ryfi sætt þá, er gør væri um þat mál. Skalt þú því Þorgeiri koma

í málit, at Gunnarr hefir vegit föður hans áðr, ok er þit eruð á einum fundi báðir, þá skalt þú hlífa þér. Enn hann mun ganga fram vel, ok mun Gunnarr vega hann. Hefir hann þá vegit tysvar í hinn sama knérunn. Enn þú skalt flýja af fundinum. Enn ef honum vill þetta til dauða draga, þá mun hann rjúfa sættina. Er þar til at sitja". Eftir þetta fer Þorgeirr heim ok segir föður sínum af launungu. Réðu þeir þat með sér, at með þessa ráðagerð skyldi þeir af hljóði fara.

68. Nökkuru síðar fór Þorgeirr Starkaðarson í Kirkjubæ at finna namna sinn, ok gengu þeir á eintal ok töluðu dag allan hljótt. Enn at lyktum gaf Þorgeirr Starkaðarson namna sínum spjót gullrekit ok reið heim síðan. Gerðu þeir með sér hina kærstu vináttu. Á Þingskálaþingi um haustit sótti Kolskeggr til lands at Móeiðarhváli, enn Gunnarr nefndi sér vátta ok bauð þeim undan Þríhyrningi lausafé eða land annat at löglegri virðingu. Þorgeirr nemndi sér vátta, at Gunnarr ryfi sætt á þeim feðgum. Eftir þat var lokit þinginu. Liðu nú þau missari. Finnast þeir namnar jafnan, ok eru með þeim hinir mestu dáleikar. Kolskeggr mælti til Gunnars: „Sagt er mér, at mikil sé vinátta þeira Þorgeirs Otkelssonar og Þorgeirs Starkaðarsonar; ok er þat margra manna mál, at þeir muni vera ótrúlegir; ok vilda ek, at þú værir varr um þik".

„Koma mun til mín feigðin“, segir Gunnarr, „hvar sem ek em staddr, ef mér verðr þess auðit“. Skildu þeir þá talit. Gunnarr sagði fyrir um haustit, at þar skyldi vinna viku heima, enn aðra niðri í eyjum ok hætta þá heyverkum. Sagði hann svá fyrir, at alt skyldi fara manna af bænum, nema hann ok konur. Þorgeirr undan Þríhyrningi ferr at finna namna sinn. Enn þegar er þeir fundust, töluðu þeir at vanda sínum. Þorgeirr Starkaðarson mælti: „Ek vilda, at vit herðim okkr ok færim at Gunnari“. „Svá at einu hafa fundir orðit við Gunnar, „sagði Þorgeirr Otkelsson, „at fáir hafa af því sigrazt; enda þykki mér ilt at heita griðníðingr“. „Þeir hafa rofit sættina, enn vit eigi“, segir Þorgeirr Starkaðarson, „tók Gunnarr af þér sáðland þitt, enn Móeiðarhvál af okkr feðgum“. Nú semja þeir þat með sér at fara at Gunnari. Segir þá Þorgeirr Starkaðarson, at Gunnar myndi at fára nátta fresti einn heima vera — „skalt þú koma við hinn tólfta mann til móts við mik, enn ek mun hafa jafnmarga“. Síðan reið Þorgeirr heim.

69. Þá er þeir húskarlar ok Kolskeggr höfðu verit þrjár nætr í eyjum, þá hefir Þorgeirr Starkaðarson njósn af þessu ok gerir orð namna sínum, at hann skyldi koma til móts við hann á Þríhyrningshálsa. Síðan bjóst Þorgeirr undan Þríhyrningi við hinn tólfta mann. Hann ríðr

upp á hálsinn ok bíðr þar namna síns. Gunnarr er nú einn heima á bænum. Ríða þeir namnar í skóga nakkvara *(fyrir ofan Hlíðarenda)*. Þar kom at þeim svefnhöfgi, ok máttu þeir ekki annat enn sofa. Festu þeir skjöldu sína í limar, enn bundu hesta sína ok settu hjá sér vápnin. Njáll var þessa nótt í Þórólfsfelli ok mátti ekki sofa, ok gekk ýmist út eða inn. Þórhildr spurði Njál, hví hann mætti ekki sofa. „Mart berr nú fyrir augu mér", sagði hann, „ek sé margar fylgjur grimmlegar óvina Gunnars ok er nakkvat undarlega: þær láta ólmlega ok fara þó ráðlauslega". Litlu síðar reið maðr at durum ok steig af baki ok gekk inn, ok var þat sauðamaðr þeira Þórhildar. Hon mælti: „Hvárt fant þú sauðina?" „Fann ek þat, er meira myndi varða", segir hann. „Hvat var þat?" segir Njáll. „Ek fann fjóra ok tuttugu menn", segir hann, „í skóginum uppi. Þeir höfðu bundit hesta sína, enn sváfu sjálfir. Þeir höfðu fest skjöldu sína í limar". Enn svá hafði hann gerla at hugat, at hann sagði frá allra þeira vápnabúnaði ok klæðum. Njáll vissi þá gerla, hverr hverrgi hafði verit, ok mælti til hans: „Gott hjóna ert þú — ef slík væri mörg, ok skalt þú jafnan þessa njóta. Enn þó vil ek nú senda þik". Hann játti at fara. „Þú skalt fara", segir Njáll, „til Hlíðarenda og segja Gunnari, at hann fari til Grjótár ok sendi það-

an eftir mönnum. Enn ek mun fara til móts við þá, er í skóginum eru ok fæla þá í braut. Hefir þetta af því vel í móti borizt, at þeir munu engis afla í þessi, enn láta mikit". Sauðamaðr fór ok sagði Gunnari sem gerst frá öllu. Reið þá Gunnarr til Grjótár ok stefndi at sér mönnum. Nú er at segja frá Njáli, at hann ríðr til fundar við þá namna: „Óvarlega liggið þér", segir hann, „eða til hvers skal för sjá ger hafa verit? ok er Gunnarr engi klektunarmaðr. Enn ef satt skal um tala, þá eru þetta hin mestu fjörráð. Skuluð þér þat ok vita, at Gunnarr er í liðsamnaði; ok mun hann hér brátt koma ok drepa yðr, nema þér ríðit undan ok heim". Þeir brugðust við skjótt — ok varð þeim mjök um felmt — ok tóku vápn sín ok stigu á hesta sína ok hleyptu heim undir Þríhyrning. Njáll fór til móts við Gunnar ok bað hann ekki eyða fjölmenni — „enn ek mun fara í meðal ok leita um sættir. Munu þeir nú vera hóflega hræddir. Enn fyrir þessi fjörráð skal eigi koma minna, er við alla þá er um at eiga, enn eigi skal meira koma fyrir víg annars hvárs þeira namna, þó at þat kunni við at bera. Skal ek varðveita þetta fé ok svá fyrir sjá, at þá sé þér innan handar, er þú þarft til at taka".

70. Gunnarr þakkaði Njáli tillögur sínar. Njáll reið undir Þríhyrning ok sagði þeim nömn-

um, at Gunnarr myndi ekki eyða flokkinum fyrr enn ór sliti með þeim. Þeir buðu boð fyrir sik ok váru óttafullir ok báðu Njál fara með sáttarboðum. Njáll kvaðst með því einu fara mundu, er eigi fylgdi svik. Þeir báðu hann vera í gerðinni ok kváðust þat halda mundu, er hann gerði. Njáll kvaðst eigi gera mundu nema á þingi, ok væri við hinir beztu menn. Þeir játtu því. Gekk þá Njáll í meðal svá at hvárir handsöluðu öðrum grið ok sætt. Skyldi Njáll gera um ok nemna til þá er hann vildi. Litlu síðar fundu þeir namnar Mörð Valgarðsson. Mörðr taldi á þá mjök, er þeir höfðu lagit mál undir Njál, þar sem hann var vinr Gunnars mikill — kvað þeim þat illa duga mundu. Ríða menn nú til alþingis at vanda. Eru nú hvárirtveggju á þingi. Njáll kvaddi sér hljóðs ok spyrr alla höfðingja ok hina beztu menn, er þar váru komnir, hvert mál þeim þætti Gunnarr eiga á þeim nömnum fyrir fjörráðin. Þeir svöruðu, at þeim þótti slíkr maðr mikinn rétt á sér eiga. Njáll spurði, hvárt hann ætti á öllum þeim, eða ætti fyrirmenn einir at svara málinu. Þeir sögðu mest á fyrirmönnum enn þó á öllum mikit. „Þat munu margir mæla“, kvað Mörðr, „at eigi hafi um sakleysi verit, þar sem Gunnarr rauf sætt við þá namna“. „Eigi er þat sættarrof“, segir Njáll, „at hverr hafi lög við annan; því at með lögum skal

land várt byggja, enn eigi með ólögum eyða". Sagði Njáll mönnum þá, at Gunnarr hafði boðit land fyrir — Móeiðarhvál — eða annat fé. Þóttust þeir þá namnar falsaðir af Merði ok töldu á hann mjök ok kváðust af honum hljóta þetta fégjald. Njáll nemndi tólf manna dóm á þessu máli. Galt þá hundrað silfrs hverr er til hafði farit, enn tvau hundruð hvárr þeira namna. Tók Njáll við þessu fé ok varðveitti. Enn hvárir veittu öðrum trygðir ok grið, ok mælti Njáll fyrir. Reið Gunnarr þá af þingi vestr til Dala í Hjarðarholt. Tók Óláfr pá vel við honum. Sat hann þar hálfan mánað. Gunnarr reið víða um Dala, ok tóku allir við honum fegins hendi. Enn at skilnaði mælti Óláfr til Gunnars: „Ek vil gefa þér þrjá gripi: gullhring ok skikkju, er átt hefir Myrkjartan Írakonungr, ok hund, er mér var gefinn á Írlandi. Hann er mikill, ok eigi verri til fylgdar enn röskr maðr. Þat fylgir ok, at hann hefir manns vit. Hann mun ok geyja at hverjum manni þeim er hann veit at óvinr þinn er, enn aldri at vinum þínum; því at hann sér á hverjum manni, hvárt til þín er vel eða illa. Hann mun ok líf á leggja at vera þér trúr. Þessi hundr heitir Sámr". Síðan mælti hann við hundinn: „Nú skalt þú Gunnari fylgja ok vera honum slíkr sem þú mátt". Hundrinn gekk þegar at Gunnari ok lagðist niðr fyrir fætr honum. Óláfr

bað Gunnar vera varan um sik ok kvað hann marga eiga öfundarmenn — „þar er þú þykkir nú ágætastr maðr um alt land“. Gunnarr þakkaði honum gjafar ok heilræði ok ríðr heim síðan. Sitr Gunnarr nú heima nakkvara hríð, ok er kyrt.

71. Litlu síðar finnast þeir namnar ok Mörðr. Verða þeir eigi á sáttir. Þóttust þeir láta fé mikit fyrir Merði, enn hafa ekki í móti, ok báðu hann setja aðra ráðagerð þá er Gunnari væri til meins. Mörðr kvað svá vera skyldu — „er þat nú ráð mitt, at Þorgeirr Otkelsson fífli Ormhildi frændkonu Gunnars; enn Gunnarr mun af því láta vaxa óþokka við þik. Skal ek þá ljósta upp þeim kvitt, at Gunnarr muni eigi hafa svá búit við þik. Skuluð þit þá nökkuru síðar hafa atför við Gunnar. En þó skuluð þit Gunnarr eigi heim sækja; því at þat má sér engi ætla, meðan hundrinn lifir“. Sömdu þeir nú þessa ráðagerð með sér, at sjá skyldi fram koma. Nú líðr sumarit. Þorgeirr venr kvámur sínar til Ormhildar. Gunnari þótti þat illa, ok gerðist óþokki mikill með þeim. Fór svá fram um vetrinn. Nú kemr sumar, ok verða þá enn oftlega fundir þeira á laun. Þeir finnast jafnan Þorgeirr undan Þríhyrningi ok Mörðr, ok ráða atför við Gunnar þá er hann riði ofan í eyjar at sjá verk húskarla sinna. Eitt sinn varð Mörðr varr við, er Gunnar reið

ofan í eyjar, ok sendi mann undir Þríhyrning at segja Þorgeiri, at þá myndi vænast til at leita at fara at Gunnari. Þeir brugðu við skjótt ok fara ofan þaðan við hinn tólfta mann. Enn er þeir kvámu í Kirkjubæ, þá váru þar fyrir aðrir tólf. Þeir ræða um, hvar þeir skuli sitja fyrir Gunnari; ok kom þat ásamt, at þeir skyldi fara ofan til Rangár ok sitja þar fyrir honum. Enn er Gunnarr reið neðan ór eyjum, reið Kolskeggr með honum. Gunnarr hafði boga sinn ok örvar ok atgeirinn. Kolskeggr hafði saxit ok alvæpni.

72. Sá atburðr varð, er þeir Gunnarr riðu neðan at Rangá, at blóð fell á atgeirinn. Kolskeggr spurði, hví þat myndi sæta. Gunnarr svaraði, ef slíkir atburðir yrði, at þat væri kallat í öðrum löndum benrögn — „ok sagði svá Ölvér búandi í Hísing, at þat væri jafnan fyrir stórfundum“. Síðan riðu þeir til þess er þeir sá mennina við ána — sjá, at þeir sitja, enn hafa bundit hestana. Gunnarr mælti: „Fyrirsát er nú“. „Lengi hafa þeir ótrúlegir verit“, segir Kolskeggr, „eða hvat skal nú til ráða taka?“ „Hleypa skulu vit upp hjá þeim“, segir Gunnarr, „til vaðsins ok búast þar við“. Hinir sjá þat ok snúa þegar at þeim. Gunnarr bendir upp bogann ok tekr örvarnar ok steypir niðr fyrir sik ok skýtr þegar er þeir kvámu í skotfæri. Særði Gunnar við þat mjök marga

menn enn drap suma. Þá mælti Þorgeirr Otkelsson: „Þetta dugir oss ekki, göngum at sem harðast“. Þeir gerðu svá. Fyrstr gekk Önundr hinn fagri frændi Þorgeirs. Gunnarr skaut atgeirinum til hans, ok kom á skjöldinn, ok klofnaði hann í tvá hluti. Enn atgeirrinn hljóp í gegnum Önund. Ögmundr flóki hljóp at baki Gunnari. Kolskeggr sá þat ok hjó undan Ögmundi báða fætr ok hratt honum út á Rangá, ok druknaði hann þegar. Gerðist nú bardagi mikill ok harðr, ok hjó Gunnarr annarri hendi, enn lagði annari. Kolskeggr vá ok drjúgan menn, en særði marga. Þorgeirr Starkaðarson mælti til namna síns: „Alllítt sér þat á, at þú eigir föður þíns at hefna á Gunnari“. Þorgeirr Otkelsson svarar: „Víst er eigi vel fram gengit, enn þó hefir þú eigi gengit mér í spor — enda skal ek eigi þola þín frýjuorð“, hleypr at Gunnari af mikilli reiði ok lagði spjótit í gegnum skjöldinn ok svá í gegnum hönd Gunnari. Gunnarr snaraði svá hart skjöldinn, at spjótit brotnaði í falnum. Gunnarr sér annan mann kominn í höggfæri við sik ok höggr þann banahöggvi. Eftir þat þrífr hann atgeirinn tveim höndum. Þá var Þorgeirr Otkelsson kominn nær honum með brugðnu sverði ok reiddi hart. Gunnarr snýst at honum skjótt af mikilli reiði ok rekr í gegnum hann atgeirinn ok bregðr honum á loft ok keyrir hann út á Rangá, ok

rekr hann ofan á vaðit ok festi þar á steini einum; ok heitir þar síðan Þorgeirsvað. Þorgeirr Starkaðarson mælti: „Flýjum vér nú, ekki mun oss sigrs verða auðit at svá búnu“. Sneru þeir þá allir í frá. „Sækju vit nú eftir þeim“, segir Kolskeggr, „ok tak þú bogann ok örvarnar, ok munt þú komast í skotfæri við Þorgeir Starkaðarson“. Gunnarr kvað þá vísu:

(22) Munu eldbeiðir eyðask
ár fésjóðar várir,
geig þó at gervim eigi
geirleiks stöfum fleirum,
enn ef ek skal runna
unnviggs þá er hér liggja
— mín nem þú mál ok greinir
mætr — gørvalla bœta.

Gunnarr svaraði: „Eyðast munu fésjóðarnir um þat er þessir eru bættir, er hér liggja nú dauðir“. „Ekki mun þér féfátt verða“, sagði Kolskeggr, „enn Þorgeirr mun eigi fyrr af láta, enn hann ræðr þér bana“. Þá kvað Gunnarr vísu:

(23) Ullr munu Ekkils vallar
andrs nakkvarir standa
jafnir unda stefni
á Rínar vegi minum,
áðr gnýjarðar girðis
græðendr munim hræðask
geisla, gljúfra fölsa
gætir fagra sætis.

„Standa munu nakkvarir hans makar á götu minni áðr enn ek hræðumst þá“, segir Gunnarr.

Síðan ríða þeir heim ok segja tíðendin. Hallgerðr fagnaði þessum tíðendum ok lofaði mjök verkit. Rannveig mælti: „Vera má, at gott sé verkit; enn verra verðr mér við, enn ek ætla, at gott muni af leiða“.

73. Þessi tíðendi spyrjast víða, ok var Þorgeirr mörgum mönnum harmdauði. Þeir Gizurr hvíti ok Geirr goði riðu til ok lýstu vígunum ok kvöddu búa til þings — riðu þá vestr aftr. Þeir Njáll ok Gunnarr fundust ok töluðu um bardagann. Þá mælti Njáll til Gunnars: „Ver þú nú varr um þik. Nú hefir þú vegit tysvar í hinn sama knérunn. Hygg nú svá fyrir hag þínum, at þar liggr við líf þitt, ef þú heldr eigi þá sætt, sem ger er“. „Hvergi ætla ek mér af at bregða“, segir Gunnarr, „enn þó mun ek þurfa liðsinni yðvart á þingi“. Njáll svaraði: „Halda mun ek við þik mínum trúnaði til dauðadags“. Ríðr Gunnarr þá heim. Líðr nú til þings, ok fjölmenna hvárirtveggju mjök. Er um þetta allfjölrætt á þingi, hversu þessi mál myndi lúkast. Þeir Gizurr hvíti ok Geirr goði töluðu með sér, hvárr þeira lýsa skyldi vígsökinni Þorgeirs. Enn þar kom, at Gizurr tók undir sik málit ok lýsti sök at Lögbergi, ok kvað svá at orði, at — „ek lýsi lögmætu frumhlaupi á hönd Gunnari Hámundarsyni um þat, er hann hljóp lögmætu frumhlaupi til Þorgeirs Otkelssonar ok særði hann holundarsári því er at ben gerðist,

enn Þorgeirr fekk bana af. Tel ek hann eiga at verða um sök þá sekjan skógarmann, óælan, óferjanda, óráðanda öllum bjargráðum. Tel ek sekt fé hans alt, hálft mér, enn hálft fjórðungsmönnum þeim er sektarfé eigu at taka eftir hann at lögum. Lýsi ek til fjórðungsdóms þess er sökin á í at koma at lögum, lýsi ek löglýsing, lýsi ek í heyranda hljóði at Lögbergi, lýsi ek nú til sóknar í sumar ok til sektar fullrar á hönd Gunnari Hámundarsyni". Í annat sinn nemndi Gizurr sér vátta ok lýsti sök á hönd Gunnari Hámundarsyni um þat er hann særði Þorgeir Otkelsson holundarsári því er at ben gerðist, enn Þorgeirr fekk bana af á þeim vættvangi, er Gunnarr hljóp til Þorgeirs lögmætu frumhlaupi áðr. Síðan lýsti hann þessi lýsing sem hinni fyrri. Þá spurði hann at þingfesti ok at heimilisfangi — eftir þat gengu menn frá Lögbergi; — ok mæltu allir, at honum mæltist vel. Gunnarr var vel stiltr ok lagði fátt til. Líðr nú þingit þar til er dómar fara út. Gunnarr stóð norðan at Rangæingadómi ok hans menn — enn Gizurr hinn hvíti stóð sunnan at ok hans menn ok nemndi sér vátta ok bauð Gunnari at hlýða til eiðspjalls síns ok til framsögu sakar sinnar ok til sóknargagna þeira allra, sem hann hugði fram at færa. Eftir þat vann hann eið. Þá sagði hann fram sök sína svá skapaða í dóm, sem hann lýsti. Þá lét

hann bera lýsingarvætti. Þá bauð hann búum í setu ok til ruðningar um kviðinn.

74. Þá mælti Njáll: „Nú mun eigi sitjanda hlut mega í eiga. Göngum nú þar til er búarnir sitja“. Þeir gengu þangat til ok ruddu fjóra búa ór kviðinum, enn kvöddu hina fimm bjargkviðar, er eftir váru, um málit Gunnars — hvárt þeir Þorgeirr Starkaðarson eða Þorgeirr Otkelsson hefði farit með þann hug til fundar at vinna á Gunnari, ef þeir mætti. Enn allir báru þat skjótt, at þat hefði verit. Kallaði Njáll þetta lögvörn fyrir málit ok kvaðst mundu fram bera vörnina, nema þeir legði til sætta. Váru í þessu þá margir höfðingjar at biðja sættanna; ok fekst þat af, at tólf menn skyldi gera um málit. Ganga hvárirtveggju þá til ok handsala þessa sætt. Eftir þat var gert um málit ok á kveðit um fégjöld — ok skyldi alt greitt þegar þar á þingi. Enn Gunnarr skyldi fara utan ok Kolskeggr ok vera í brautu þrjá vetr. Enn ef Gunnarr færi eigi utan, ok mætti hann komast, þá skyldi hann dræpr fyrir frændum hins vegna. Gunnarr lét ekki á sik finna, at honum þætti eigi góð sættin. Gunnarr spurði Njál at fé því, er hann hafði fengið honum til varðveizlu. Njáll hafði ávaxtat féit ok greiddi þá fram alt, ok stóðst þat á endum ok þat er Gunnarr átti at gjalda fyrir sik. Ríða menn nú heim. Þeir Njáll ok Gunnarr

riðu báðir samt af þingi. Þá mælti Njáll til Gunnars: „Geym nú svá til, félagi, at þú halt sætt þessa ok mun, hvat vit höfum við mælzt, og svá sem þér varð hin fyrri utanferð mikil til sæmdar, þá mun þér verða sjá miklu meir til sæmdar. Munt þú koma út með mannvirðingu mikilli ok verða maðr gamall, ok mun engi maðr hér þá á sporði þér standa. Enn ef þú ferr eigi utan ok rýfr sætt þína, þá munt þú drepinn vera hér á landi — ok er þat ilt at vita þeim er vinir þínir eru“. Gunnarr kvaðst ekki ætla að rjúfa sættir. Gunnarr ríðr heim ok segir sættina. Rannveig móðir hans kvað þat vel, at hann færi utan ok ætti þeir við annan at deila fyrst.

75. Þráinn Sigfússon sagði þat konu sinni, at hann ætlaði at fara utan þat sumar. Hon kvað þat vel vera. Tók hann sér þá fari með Högna hinum hvíta. Gunnarr tók sér fari með Arnfinni hinum víkverska ok Kolskeggr bróðir hans. Þeir Grímr ok Helgi Njálssynir báðu föður sinn, at hann leyfði þeim at fara utan. Njáll mælti: „Erfið mun ykkr verða utanferð sjá, svá at tvísýnt mun ykkr verða þykkja, hvárt þit haldið lífinu — enn þó munuð þit fá sæmd í sumu ok mannvirðing — enn eigi örvænt, at af leiði vandræði, er þit komið út“. Þeir báðu jafnan at fara. Ok þat varð, at hann bað þá fara, ef þeir vildi. Réðu þeir sér þá far með Bárði svarta ok Óláfi syni Ketils ór Eldu. Ok

er nú mikil umræða á, at mjök leysist á braut hinir betri menn ór sveitinni. Þeir váru þá frumvaxta synir Gunnars Högni og Grani. Þeir váru menn óskapglíkir: hafði Grani mikit af skaplyndi móður sinnar, enn Högni var vel at sér. Gunnarr lætr flytja vöru þeira bræðra til skips. Ok þá er öll föng Gunnars váru til skips komin ok skip var mjök búit, þá ríðr Gunnarr til Bergþórshváls ok á aðra bæi at finna menn ok þakkaði liðveizlu öllum þeim er honum höfðu lið veitt. Annan dag eftir býr hann snimmendis ferð sína til skips ok sagði þá öllu liði, at hann myndi ríða í braut alfari. Ok þótti mönnum þat mikit — enn væntu þó tilkvámu hans síðar. Gunnarr hverfr til allra heimamanna sinna, er hann var búinn, og gengu menn út með honum allir. Hann stingr niðr atgeirinum ok stiklar í söðulinn, ok ríða þeir Kolskeggr í braut. Þeir ríða fram at Markarfljóti *(ok ofan með því)*. Þá drap hestr Gunnars fæti, ok stökk hann af baki. Honum varð litit upp til hlíðarinnar ok bæjarins at Hlíðarenda. Þá mælti hann: „Fögr er hlíðin, svá at mér hefir hon aldri jafnfögr sýnzt — bleikir akrar, enn slegin tún —, ok mun ek ríða heim aftr ok fara hvergi“. „Ger þú eigi þann óvina fagnað“, segir Kolskeggr, „at þú rjúfir sætt þína; því at þér myndi engi maðr þat ætla. Ok munt þú þat ætla mega, at svá mun alt fara, sem Njáll hefir sagt“. „Hvergi

mun ek fara“, segir Gunnarr, „ok svá vilda ek at þú gerðir“. „Eigi skal þat“, segir Kolskeggr, „hvártki skal ek á þessu níðast ok á engu öðru, því er mér er til trúat; ok mun sjá einn hlutr svá vera, at skilja mun með okkr. Enn seg þat móður minni ok frændum mínum, at ek ætla ekki at sjá Ísland; því at ek mun spyrja þik látinn, frændi, ok heldr mik þá ekki til útferðar“. Skilr þá með þeim. Ríðr Gunnarr heim til Hlíðarenda, enn Kolskeggr ríðr til skips ok ferr utan. Hallgerðr varð fegin Gunnari, er hann kom heim, enn móðir hans lagði fátt til. Gunnarr sitr nú heima þetta haust ok vetrinn ok hafði ekki mart manna um sik. Líðr nú vetr ór garði. Óláfr pái sendi Gunnari mann ok bað hann fara vestr þangat ok Hallgerði, enn fá bú í hendr móður sinni ok Högna syni sínum. Gunnari þótti þat fýsilegt fyrst ok játaði því; enn þá er at kom, þá vildi hann eigi. Enn á þingi um sumarit lýsa þeir Gizurr sekt Gunnars at Lögbergi. Enn áðr þinglausnir váru, stefndi Gizurr öllum óvinum Gunnars í Almannagjá: Starkaði undan Þríhyrningi ok Þorgeiri syni hans, Merði ok Valgarði hinum grá, Geir goða ok Hjalta Skeggjasyni, Þorbrandi ok Ásbrandi Þorleikssonum, Eilífi ok Önundi syni hans, Önundi ór Trollaskógi, Þorgrími austmanni ór Sandgili. Gizurr mælti: „Ek vil bjóða yðr, at vér farim at Gunnari í sumar ok drepim

hann". Hjalti mælti: „Því hét ek Gunnari hér á þingi, þá er hann gerði mest fyrir mín orð, at ek skylda aldri vera í atförum við hann; ok skal svá vera". Síðan gekk Hjalti í braut. Enn þeir réðu atför við Gunnar, er eftir váru, ok höfðu handtak at ok lögðu við sekt, ef nakkvarr gengi ór. Mörðr skyldi halda njósnum til, nær bezt gæfi færi á Gunnari — ok váru þeir fjórir tigir manna í þessu sambandi. Þótti þeim sér nú lítit mundu fyrir verða at veiða Gunnar, er í brautu var Kolskeggr ok Þráinn ok margir aðrir vinir Gunnars. Riðu menn heim af þingi. Njáll fór at finna Gunnar ok sagði honum sekt hans ok ráðna atför við hann. „Vel þykki mér þér fara" sagði Gunnarr, „er þú gerir mik varan við". „Nú vil ek", segir Njáll, „at Skarpheðinn fari til þín ok Höskuldr sonr minn, ok munu þeir leggja sitt líf við þitt líf". „Eigi vil ek þat", segir Gunnarr, „at synir þínir sé drepnir fyrir mínar sakar, ok átt þú annat at mér". „Fyrir ekki mun þat koma" sagði Njáll, „þangat mun snúit vandræðum, þá er þú ert látinn, sem synir mínir eru". „Eigi er þat óglíklegt", segir Gunnarr, „enn eigi vilda ek at þat hlytist af mér til. Enn þess vil ek biðja þik ok yðr feðga, at þér sjáið á með Högna syni mínum. Enn ek tala þar ekki til, er Grani er; því at hann gerir mart ekki at mínu skapi". Njáll hét því ok reið heim. Þat er sagt, at

Gunnarr reið til allra mannfunda ok lögþinga, ok þorðu aldri óvinir hans á hann at ráða. Fór svá fram nakkvara hríð, at hann fór sem ósekr maðr.

76. Um haustit sendi Mörðr Valgarðsson orð, at Gunnarr myndi vera einn heima enn lið alt myndi vera niðri í eyjum at lúka heyverkum. Riðu þeir Gizurr hvíti og Geirr goði austr yfir ár, þegar þeir spurðu þat, og austr yfir sanda til Hofs. Þá sendu þeir orð Starkaði undir Þríhyrningi; ok fundust þeir þar allir, er at Gunnari skyldu fara, ok réðu, hversu þeir skyldi með fara. Mörðr sagði, að þeir myndi eigi koma á óvart Gunnari, nema þeir tæki búanda af næsta bæ, er Þorkell hét, ok léti hann fara nauðgan með sér at taka hundinn Sám — ok færi hann einn heim á bæinn. Fóru þeir síðan austr til Hlíðarenda, enn sendu menn að fara eftir Þorkatli. Þeir tóku hann höndum ok gerðu honum tvá kosti: at þeir myndi drepa hann — ella skyldi hann taka hundinn. Enn hann keyri heldr at leysa líf sitt ok fór með þeim. Traðir váru fyrir ofan garðinn at Hlíðarenda, ok námu þeir þar staðar með flokkinn. Þorkell búandi gekk heim á bæinn — ok lá rakkinn á húsum uppi, ok teygir hann rakkann á braut í *traðirnar* með sér. Í því sér hundrinn, at þar eru menn fyrir, ok hleypr á hann Þorkel upp ok grípr nárann ok rífr þar á hol. Önundr

ór Trollaskógi hjó með öxi í höfuð hundinum svá at alt kom í heilann. Hundrinn kvað við hátt, svá at þat þótti þeim með ódæmum miklum vera, ok fell hann dauðr niðr.

77. Gunnarr vaknaði í skálanum ok mælti: „Sárt ert þú leikinn, Sámr fóstri — ok búð svá sé til ætlat, at skamt skyli okkar í meðal“. Skáli Gunnars var gerr af viði einum ok súðþakiðr utan — ok gluggar hjá brúnásunum ok snúin þar fyrir speld. Gunnarr svaf í lofti einu í skálanum ok Hallgerðr og móðir hans. Enn er þeir kvámu at bænum, vissu þeir eigi, hvárt Gunnarr myndi heima vera. Gizurr mælti, at nakkvarr skyldi fara heim á húsin ok vita hvat af kannaði. Enn þeir settust niðr á völlinn meðan. Þorgrímr austmaðr gekk upp á skálann. Gunnarr sér, at rauðan kyrtil berr við glugginum, ok leggr út með atgeirinum á hann miðjan. Þorgrími skruppu fætrnir ok varð lauss skjöldrinn, ok hrataði hann ofan af þekjunni. Gengr hann síðan at þeim Gizuri þar er þeir sátu á vellinum. Gizurr leit við honum ok mælti: „Hvárt er Gunnarr heima?“ „Vitið þér þat — enn hitt vissa ek, at atgeirr hans var heima“ segir austmaðrinn. Fell hann þá niðr dauðr. Þeir sóttu þá heim at húsunum. Gunnarr skaut út örum at þeim ok varðist vel, ok gátu þeir ekki at gert. Þá hljópu sumir á húsin upp ok ætluðu þaðan at at sækja. Gunnarr kom þangat

at þeim örunum, og gátu þeir ekki at gert, ok fór svá fram um hríð. Þeir tóku hvíld ok sóttu at í annat sinn. Gunnarr skaut enn út örunum, ok gátu þeir enn ekki at gert ok hrukku frá í annat sinn. Þá mælti Gizurr hvíti: „Sækjum at betr, ekki verðr af oss“. Gerðu þeir þá hríð hina þriðju ok váru við lengi. Eftir þat hrukku þeir frá. Gunnarr mælti: „Ör liggr þar úti á *vegginum*, ok er sú af þeira örum, ok skal ek þeiri skjóta til þeira, — ok er þeim þat skömm, ef þeir fá geig af vápnum sínum“. Móðir hans mælti: „Ger þú eigi þat, son minn, at þú vekir þá, er þeir hafa áðr frá horfit“. Gunnarr þreif örina ok skaut til þeira, ok kom á Eilíf Önundarson, ok fekk hann af sár mikit. Hann hafði staðið einn saman; ok vissu þeir eigi, at hann var særðr. „Hönd kom þar út, segir Gizurr — „ok var á gullhringr — ok tók ör, er lá á *vegginum;* ok myndi eigi út leitat viðfanga, ef gnógt væri inni: ok skulu vér nú sækja at“. Mörðr mælti: „Brennu vér hann inni“. Þat skal verða aldri“, segir Gizurr, „þó at ek vita, at líf mitt liggi við. Er þér sjálfrátt at leggja til ráð þau er dugi, svá slægr maðr sem þú ert kallaðr“. Strengir lágu á vellinum ok váru hafðir til at festa með hús jafnan. Mörðr mælti: „Töku vér strengina ok berum um ássendana, enn festum aðra endana um steina ok snúum í vindása ok vindum af

ræfrit af skálanum". Þeir tóku strengina ok veittu þessa umbúð alla, ok fann Gunnarr eigi fyrr enn þeir höfðu undit alt þakit af skálanum. Gunnarr skýtr þá af boganum svá at þeir komast aldri at honum. Þá mælti Mörðr í annat sinn, at þeir myndi brenna Gunnar inni. Gizurr svarar: „Eigi veit ek, hví þú vill þat mæla, er engi vill annarra, ok skal þat aldri verða". Í þessu bili hleypr upp á *vegginn* Þorbrandr Þorleiksson ok höggr í sundr bogastrenginn Gunnars. Gunnarr þrífr atgeirinn báðum höndum ok snýst at honum skjótt ok rekr í gegnum hann atgeirinn ok kastar honum dauðum á völlinn. Þá hljóp upp Ásbrandr bróðir hans. Gunnarr leggr til hans atgeirinum, ok kom hann skildi fyrir sik. Atgeirrinn rendi í gegnum skjöldinn ok svá meðal handleggjanna. Snaraði Gunnarr þá svá fast atgeirinn, at skjöldrinn klofnaði, enn brotnuðu báðir handleggirnir — ok fell hann út af vegginum. Áðr hafði Gunnarr særða átta menn, enn vegit þá tvá. Þá fekk Gunnarr sár tvau; ok sögðu þat allir menn, at hann brygði sér hvártki við sár né við bana. Hann mælti til Hallgerðar: „Fá mér leppa tvá ór hári þínu ok snúið þit móðir mín saman til bogastrengs mér". „Liggr þér nakkvat við?" segir hon. „Líf mitt liggr við", segir hann, „því at þeir munu mik aldri fá sóttan, meðan ek kem boganum við". „Þá skal ek nú", segir

hon, „muna þér kinnhestinn; og hirði ek aldri, hvárt þú ver þik lengr eða skemr". Gunnarr kvað þá vísu:

(24) Hverr hefir dreyrgra darra
dómreynir til sóma
níðr drepr sveigar Sága
síns ágætis mínum.
Öngr skal lítils lengi
liðs ráðandi biðja;
fús verðr fagrmjöls dísi
fenju hönd á venju.

„Hefir hverr til síns ágætis nakkvat", segir Gunnarr, „ok skal þik þessa eigi lengi biðja". Rannveig mælti: „Illa ferr þér, ok mun þín skömm lengi uppi". Gunnarr varði sig vel og fræknlega, ok særir nú aðra átta menn svá stórum sárum, at mörgum lá við bana. Gunnarr ver sik þar til er hann fell af mæði. Þeir særðu hann þá mörgum stórum sárum. Enn þó komst hann ór höndum þeim ok varði sik þá enn lengi. Enn þó kom þar, at þeir drápu hann. Um vörn hans orti Þorkell elfaraskáld í vísu þessi:

(25) Spurðu vér, hvé varðisk
vígmóðr kjalar slóða
glaðstýrandum geiri
Gunnarr fyr Kjöl sunnan.
Sókrýrir vann sára
sextán Viðurs mána
hríðar herðimeiða
hauðrmens, enn tvá dauða.

Enn svá segir Þormóðr Ólafsson:

(26) Engr var sólar slöngvir
sandheims á Íslandi
hróðr er af heiðnum lýðum
hægr Gunnari frægri.
Viðr nam hjálma hríðar
hlífrunna tvá lífi;
sár gaf stála stýrir
stórum tólf ok fjórum.

Gizurr mælti: „Mikinn öldung höfu vér nú at velli lagit, ok hefir oss erfitt veitt — ok mun hans vörn uppi, meðan landit er bygt“. Síðan gekk hann til fundar við Rannveigu ok mælti: „Vill þú veita mönnum várum tveimr jörð, er dauðir eru — ok sé hér heygðir?“ „At heldr tveimr“, segir hon, „at ek mynda veita yðr öllum“. „Várkunn er þér til þess, er þú mælir“, segir hann, „því at þú hefir mikils mist“, ok kvað á, at þar skyldi engu ræna og engu spilla — fóru á braut síðan. Þá mælti Þorgeirr Starkaðarson: „Eigi megu vér vera heima í búum várum fyrir Sigfússsonum, nema þú Gizurr hvíti — eða Geirr goði — sér suðr hér nakkvara hríð“. „Þetta mun svá vera“, segir Gizurr, ok hlutuðu þeir, ok hlaut Geirr eftir at vera. Síðan fór hann í Odda ok settist þar. Hann átti sér son, er Hróaldr hét. Hann var laungetinn, ok hét Bjartey móðir hans ok var systir Þorvalds hins veila, er veginn var við Hestlæk í Grímsnesi. Hann hrósaði því, at hann hefði

veitt Gunnari banasár. Hróaldr var í Odda með föður sínum. Þorgeirr Starkaðarson hrósaði öðru sári at hann hefði Gunnari veitt. Gizurr sat heima at Mosfelli. Víg Gunnars spurðist ok mæltist illa fyrir um allar sveitir, ok var hann mörgum mönnum mjök harmdauði.

78. Njáll kunni illa láti Gunnars ok svá Sigfússsynir. Þeir spurðu, hvárt Njáli þætti nakkvat eiga at lýsa vígsök Gunnars ok búa mál til. Hann kvað þat ekki mega, er maðr var sekr orðinn, ok kvað heldr mundu verða at veita þeim í því vegskarð at vega nakkvara í hefnd eftir hann. Þeir urpu haug eftir Gunnar ok létu hann sitja upp í hauginum. Rannveig vildi eigi, at atgeirrinn færi í hauginn, ok kvað þann einn skyldu á honum taka, er hefna vildi Gunnars. Tók því engi á atgeirinum. Hún var svá hörð við Hallgerði, at henni helt við at hon myndi drepa hana, ok kvað hana valdit hafa vígi sonar síns. Stökk þá Hallgerðr til Grjótár ok Grani sonr hennar. Var þá gert féskifti með þeim: skyldi Högni taka land at Hlíðarenda ok bú á, enn Grani skyldi hafa leigulönd. Sá atburðr varð at Hlíðarenda, at smalamaðr ok griðkona ráku fé hjá haugi Gunnars. Þeim þótti Gunnarr vera kátr ok kveða í hauginum. Fóru þau heim ok sögðu Rannveigu móður Gunnars atburðinn; enn hon bað þau fara til Bergþórshváls ok segja Njáli.

Þau gerðu svá — enn hann lét segja sér þrim sinnum. Eftir þat talaði hann lengi hljótt við Skarpheðin. Síðan tók Skarpheðinn öxi sína ok ferr með þeim til Hlíðarenda. Þau Högni ok Rannveig tóku við honum allvel ok urðu honum fegin mjök. Rannveig bað, at hann væri þar lengi. Hann hét því. Þeir Högni gengu út ok inn jafnan. Högni var maðr vasklegr ok vel at sér gerr ok tortryggr, ok þorðu þau fyrir því eigi at segja honum fyrirburðinn. Þeir Skarpheðinn ok Högni váru úti eitt kveld ok váru fyrir sunnan haug Gunnars. Tunglskin var bjart, enn stundum dró fyrir. Þeim sýndist haugrinn opinn ok hafði Gunnarr snúizt í hauginum ok sá í móti tunglinu. Þeir þóttust sjá fjögur ljós í hauginum brenna, ok bar hvergi skugga á. Þeir sá, at Gunnarr var kátlegr ok með gleðibragði miklu. Hann kvað vísu — ok svá hátt, at þó mátti heyra gerla, þó at þeir væri firr:

(27) Mælti dögla deilir
dáðum rakkr, sá er háði
bjartr með beztu hjarta
benrögn, faðir Högna:
heldr kvaðsk hjalmi faldinn
hjörþilju sjá vilja
vættidraugr, enn vægja,
valfreyju stafr, deyja
valfreyju stafr, deyja.

Síðan laukst aftr haugrinn. „Myndir þú trúa“,

segir Skarpheðinn, „ef aðrir segði þér? „Trúa mynda ek“, segir Högni, „ef Njáll segði; því at þat er sagt, at hann ljúgi aldri“. „Mikit er um fyrirburði slíka“. segir Skarpheðinn, „er hann sjálfr vitraði okkr, at hann vildi heldr deyja enn vægja fyrir óvinum sínum, ok kendi okkr þau ráð“. „Engu mun ek til leiðar koma“, segir Högni, „nema þú vilir mér at veita“. „Nú skal ek þat muna“, segir Skarpheðinn, „hversu Gunnari fór eftir víg Sigmundar frænda yðvars. Skal eg nú veita þér slíkt er ek má. Hét faðir minn því Gunnari þar er þú ættir hlut at eða móðir hans“. Gengu þeir síðan heim til Hlíðarenda.

79. Skarpheðinn mælti: „Nú skulu vit fara þegar í nótt; því at ef þeir spyrja, at ek em hér, þá munu þeir vera varari um sik“. „Þínum ráðum vil ek fram fara“ segir Högni. Eftir þat tóku þeir vápn sín, þá er allir menn váru í rekkjum. Högni tekr ofan atgeirinn, ok söng í honum hátt. Rannveig spratt upp af æði mikilli ok mælti: „Hverr tekr atgeirinn, þar er ek bannaði öllum með at fara?“ „Ek ætla“, segir Högni, „at færa föður mínum — ok hafi hann til Valhallar ok beri þar fram á vápnaþingi“. „Fyrri munt þú nú bera hann“, segir hon, „ok hefna föður þíns; því at atgeirrinn segir manns bana eins eða fleiri“. Síðan gekk Högni út ok sagði Skarpheðni orðræðu þeira ömmu hans.

Síðan fara þeir til Odda. Hrafnar tveir flugu með þeim alla leið. Þeir kvámu um nóttina í Odda. Þeir ráku fénað heim á húsin. Þá hljóp út Hróaldr ok Tjörvi ok ráku féit upp í geilarnar ok höfðu með sér vápn sín. Skarpheðinn spratt upp ok mælti: „Eigi þarft þú at hyggja at: jafnt er sem þér sýnist — menn eru hér“. Síðan höggr Skarpheðinn Tjörva banahögg. Hróaldr hafði spjót í hendi. Högni hleypr at honum. Hróaldr leggr til Högna. Högni hjó í sundr spjótskaftit með atgeirinum, enn rekr atgeirinn í gegnum hann. Síðan gengu þeir frá þeim dauðum ok snúa þaðan upp undir Þríhyrning. Skarpheðinn hleypr á hús upp ok reytir gras; ok ætluðu þeir er inni váru, at fénaðr væri. Tóku þeir feðgar Starkaðr ok Þorgeirr vápn sín ok klæði ok fóru út ok hljópu upp um garðinn. Enn er Starkaðr sér Skarpheðinn, hræðist hann ok vildi aftr snúa. Skarpheðinn höggr hann við garðinum. Þá kemr Högni í móti Þorgeiri ok vegr hann með atgeirinum. Þaðan fara þeir til Hofs, ok var Mörðr á velli úti ok bað sér griða ok bauð alsætti. Skarpheðinn sagði Merði víg þeira fjögurra. Skarpinn kvað þá vísu:

(28) Vér höfum felda fjóra
fleinstýranda dýra,
þeim skaltu beiðir beimum
bylgju logs of fylgja.

Kúgum karl svá at ægi
kaldráðum hlyn skjalda,
aumr sel þú alla dóma
auðrunnr syni Gunnars.

„Ok slíka för“, segir Skarpheðinn, „skalt þú fara — eða selja Högna sjálfdæmi, ef hann vill taka“. Högni kvaðst hitt hafa ætlat, at sættast ekki við föðurbana sína. Enn þó tók hann sjálfdæmi um síðir.

**80.** Njáll átti hlut at við þá, er eftirmál áttu eftir þá Starkað ok Þorgeir, at þeir skyldi taka sættum. Ok var heraðsfundr til lagðr ok teknir menn til gerðar. Ok váru virðir í allir hlutir — tilför við Gunnar, þó at hann væri sekr. Enn slík fégjöld, sem ger váru — þá galt Mörðr alt; því at þeir luku eigi fyrr upp gerð á hendr honum, enn gert var áðr um hitt málit, ok létu þeir þat á endum standast. Váru þeir þá alsáttir. Enn á þingi var umræða mikil um mál þeira Geirs goða ok Högna; ok kom þar, at þeir sættust — ok helzt sú sætt með þeim síðan. Bjó Geirr goði í Hlíð til dauðadags, ok er hann ór sögunni. Njáll bað konu til handa Högna — Álfeiðar dóttur Vetrliða skálds — ok var hon honum gefin. Þeira son var Ari, er sigldi til Hjaltlands ok kvángaðist þar. Frá honum er kominn Einarr Hjaltlendingr hinn vaskasti maðr. Högni helt vináttu sinni við Njál, ok er hann ór sögunni.

81. Nú er at segja frá Kolskeggi, at hann kemr til Noregs ok er í Vík austr um vetrinn. Enn um sumarit eftir ferr hann austr til Danmerkr ok felst á hendi Sveini konungi tjúguskegg ok hafði þar virðingar miklar. Eina hverja nótt dreymir hann, at maðr kom at honum. Sá var ljóss, ok þótti honum hann vekja sik. Hann mælti við hann: „Statt upp þú ok far með mér“. „Hvat vill þú mér?“ segir Kolskeggr. Hann mælti: „Ek skal fá þér kvánfang, ok skalt þú vera riddari minn“. Hann þóttist játa því. Eftir þat vaknaði hann. Síðfór hann til spekings eins ok sagði honum drauminn. Enn hann réð svá, at hann myndi fara suðr í lönd ok verða guðs riddari. Kolskeggr tók skírn í Danmörku, enn nam þar þó eigi yndi ok fór austr í Garðaríki ok var þar einn vetr. Þá fór hann þaðan út í Miklagarð ok gekk þar á mála. Spurðist þat til hans, at hann kvángaðist þar ok var höfðingi fyrir Væringjaliði ok var þar til dauðadags. Ok er hann úr sögu þessi.

82. Nú er þar til máls at taka, at Þráinn Sigfússon kom til Noregs. Þeir kvámu norðr við Hálogaland ok heldu suðr til Þrándheims ok svá inn til Hlaða. Enn þegar er Hákon jarl spurði þat, sendi hann menn til þeira ok vildi vita, hvat manna væri á skipi. Þeir kvámu aftr ok sögðu honum hverir váru. Jarlinn

sendi þá eftir Þráni Sigfússyni, ok kom hann á hans fund. Jarl spurði, hverrar ættar hann væri. Hann segir, at hann væri skyldr mjök Gunnari at Hlíðarenda. Jarl mælti: „Njóta skalt þú þess; því at sét hefi ek marga íslenzka menn ok engan hans maka". Þráinn mælti: „Herra vilið þér, at ek sé með yðr í vetr?" Jarl tók við honum. Var Þráinn þar um vetrinn ok virðist vel. — Kolr hét maðr. Hann var víkingr mikill. Hann var son Ásmundar eskisíðu austan ór Smálöndum. Hann lá í Gautelfi austr ok hafði fimm skip ok lið mikit. Þaðan helt Kolr ór Elfinni til Noregs ok gekk upp á Foldinni ok kom á óvart Hallvarði sóta — ok fundu hann í lofti einu. Hann varðist þaðan vel þar til er þeir báru eld at. Þá gafst hann upp. Enn þeir drápu hann ok tóku þar fé mikit ok heldu þaðan til Ljóðhúsa. Þessi tíðendi spurði Hákon jarl ok lét dæma Kol útlagan um alt ríki sitt ok lagði fé til höfuðs honum. Einu hverju sinni var þat, at jarl tók svá til orða: „Of fjarri er oss nú Gunnarr at Hlíðarenda. Hann myndi drepa útlaga minn, ef hann væri hér. Enn nú munu Íslendingar drepa hann. Ok er þat illa, er hann hefir eigi til vár farit". Þráinn Sigfússon svaraði: „Eigi em ek Gunnarr, enn þó em ek skyld Gunnari, ok vil ek bjóðast til þessar ferðar". Jarl mælti: „Þat vil ek gjarna. Skal ok þína för allvel búa".

Síðan tók Eiríkr son hans til orða: „Við marga hafið þér heit góð — enn misjafnt þykkir út seljast. Er þetta hin torvelligsta för; því at víkingr sjá er harðr ok illr viðreignar. Munt þú þurfa at vanda til ferðar þessar bæði skip ok menn“. Þráinn mælti: „Þó skal nú fara, at ferðin sé eigi rífleg“. Síðan fekk jarl honum fimm skip ok öll vel skipuð. Með Þráni var Gunnarr Lambason ok Lambi Sigurðarson. Gunnarr var bróðurson Þráins ok hafði komit til hans ungr, ok unni hvárr öðrum mikit. Eiríkr jarlsson gekk til með þeim ok hugði at mönnum ok vápnaafla ok skifti þar um, er honum þótti þurfa. Síðan, er þeir váru búnir, fekk Eiríkr þeim leiðsögumann. Sigldu þeir þá suðr með landi; enn hvar sem þeir kvæmi við, þá heimilaði jarl þeim slíkt, er þeir þyrfti at hafa. Þeir heldu austr til Ljóðhúsa. Þar spurðu þeir, at Kolr var farinn suðr til Danmerkr. Heldu þeir þá suðr þangat. Enn er þeir kvámu suðr til Helsingjaborgar, fundu þeir þar menn á báti; ok sögðu þeir, at þar var Kolr fyrir ok myndi þar dveljast um hríð. Veðrdagr var góðr. Þá sá Kolr skipin, er at fóru, ok kvað sik dreymt hafa Hákon jarl um nóttina ok kvað þetta vera mundu menn hans ok bað alla menn sína taka vápn sín. Síðan bjoggust þeir við, ok tekst þar orrosta. Berjast þeir lengi svá at eigi verða umskifti. Kolr hljóp þá upp á skip

Þráins ok ruddist um fast ok drepr margan mann. Hann hafði gyldan hjálm. Nú sér Þráinn, at eigi mun duga — eggjar nú mennina með sér, enn hann gengr sjálfr fyrstr ok mætir Kol. Kolr höggr til hans, ok kom í skjöldinn Þráins ok klauf ofan skjöldinn. Þá fekk Kolr steinshögg á höndina; fell þá niðr sverðit. Þráinn hjó til Kols, ok kom á fótinn svá at af tók. Eftir þat drápu þeir Kol. Hjó Þráinn höfuð af honum, enn steypti búkinum fyrir borð enn varðveitti höfuðit. Þeir tóku þar fé mikit — heldu þá norðr til Þrándheims ok fara á fund jarls. Tók hann vel við Þráni. Hann sýndi jarli höfuð Kols. Jarl þakkaði honum verk þat. Eiríkr kvað meira vert enn orða einna. Jarlinn svaraði, at svá var, ok bað þá ganga með sér. Gengu þeir þangat sem jarl hafði látit gera skip góð. Jarl hafði látit gera skip þat eitt, er eigi var gert sem langskip. Þar var gammshöfuð á — ok búit mjök. Jarl mælti: „Þú ert skrautmenni mikit, Þráinn, ok hefir þú þat af Gunnari frænda þínum: víl ek nú gefa þér skip þetta — enn skipit heitir Gammr. Þar skal fylgja með vinátta mín. Vil ek, at þú sér með mér svá lengi sem þú vill“. Þráinn þakkaði jarli velgerning sinn ok kveðst ekki fýsast til Íslands at svá búnu. Jarl átti ferð austr til landamæris at finna Svíakonung. Fór Þráinn með honum um sumarit ok var

skipstjórnarmaðr ok stýrði Gamminum. Hann sigldi svá mikit, at fáir þurftu við hann. Hann var öfundaðr mjök. Enn þat fanst á jafnan, at jarl virði mikils Gunnar; því at hann setti þá harðlega aftr alla, er á Þráin leituðu. Var Þráinn með jarli allan þann vetr. Enn um várit spurði jarl Þráin, hvárt hann vildi þar vera eða fara til Íslands. Enn hann kvaðst eigi þat hafa ráðit við sik ok sagðist vita vilja áðr tíðendi af Íslandi. Jarl sagði, at svá skyldi vera, sem honum þætti henta. Var Þráinn með jarli. Þá spurðust tíðendi af Íslandi þau er mörgum þótti mikil — lát Gunnars frá Hlíðarenda. Þá vildi jarl eigi at Þráinn færi út; ok var hann þá enn með jarli.

83. Nú er þar til máls at taka, at þeir Grímr ok Helgi synir Njáls fóru af Íslandi þat sumar, sem þeir Þráinn fóru utan, ok váru á skipi með þeim Óláfi eldu Ketilssyni ok Bárði hinum svarta. Þeir tóku norðanveðr svá hörð, at þá bar suðr í haf; ok rak yfir myrkr svá mikit, at þeir vissu eigi, hvar þeir fóru; ok höfðu þeir útivist langa. Þá kvámu þeir þar, er grunnsævi var mikit; ok þóttust þeir vita, at þat myndi vera nær löndum. Þeir Njálssynir spurðu, ef Bárðr vissi nakkvat til, hverjum löndum þeir myndi næst vera. „Mörg eru til“, segir hann, „at því, sem vér höfum veðrföll haft — eyjar eða Skotland eða Írland“. Tveim

nóttum síðar sá þeir lönd á bæði borð, enn boða mikinn inn á fjörðinn. Þeir köstuðu akkerum fyrir utan boðann. Þá tók at lægja veðrit. Enn um morguninn var logn. Sjá þeir þá fara þrettán skip út at sér. Þá mælti Bárðr: „Hvat skal nú til ráða taka? því at menn þessir munu veita oss atsókn“. Síðan ræddu þeir um, hvárt þeir skyldi verja sik eða gefast upp. Enn áðr þeir höfðu ráðit, kvámu at víkingar. Spurðu þá hvárir aðra at nömnum — hvat fyrirmenn héti. Þá nemndust fyrirmenn kaupmanna ok spurðu í móti, hverir fyrir víkingum væri. Annarr nemndist Grjótgarðr, enn annarr Snækólfr — synir Moldans ór Dungalsbæ í Skotlandi, frændr Melkólfs Skotakonungs — „ok eru kostir tveir af oss gervir“, segir Grjótgarðr, „at þér gangið á land, enn vér munum taka fé yðvart. Hinn er annarr, at vér munum sækja at yðr ok drepa hvern mann, er vér nám“. Helgi svarar: „Þat vilja kaupmenn at verja sik“. Þá mæltu kaupmenn: „Mæl þú alls vesæll. Hverja vörn munu vér veita? ok er fé fjörvi firra“. Grimr tók þat ráð, at hann æpti á víkinga ok lét þá eigi heyra illan kurr kaupmanna. Bárðr ok Óláfr mæltu: „Hyggið þér eigi, at Íslendingar muni gera spott at látum yðrum? takið nú heldr vopn yður, ok verjum oss“. Tóku þeir þá allir vápn sín ok festu þat með sér, at þeir skyldu

aldri upp gefast, meðan þeir mættu verja sik.

84. Víkingar skjóta nú á þá, ok tókst nú orrosta, ok verja kaupmenn sik vel. Snækólfr hleypr at Óláfi .ok leggr í gegnum hann með spjóti. Grímr leggr til Snækólfs spjóti ok svá fast, at hann fell útbyrðis. Helgi sneri þá til móts við Grím ok ráku þeir ofan alla víkinga; ok jafnan váru þeir Njálssynir þar er mest þurfti. Víkingar kölluðu ok báðu kaupmenn upp gefast. Enn þeir sögðu, at þeir skyldu aldri upp gefast. Í þessu varð þeim litit til hafs. Sjá þeir þá, at skip fara sunnan fyrir nesit ok váru eigi færi enn tíu. Þeir róa mikinn ok stefna at þangat. Er þar skjöldr við skjöld. Enn á því skipi er fyrst fór stóð maðr við siglu. Sá var í silkitreyju ok hafði gyldan hjálm — enn hárit bæði mikit ok fagrt. Sjá maðr hafði spjót gullrekit í hendi. Hann spurði: „Hverir eigu hér leik svá ójafnan?“ Helgi segir til sín ok sagði, at í móti váru þeir Grjótgarðr ok Snækólfr. „Enn hverir eru stýrimenn?“ sagði sjá. Helgi svaraði: „Bárðr svarti, er lifir. Enn annarr er fallinn hér fyrir víkingum, ok hét sá Óláfr. Enn bróðir minn heitir Grímr, er mér fylgir“. „Eruð þit íslenzkir menn“? segir sjá. „Svá er víst“, segir Helgi. Hann spurði, hvers synir þeir væri. Þeir sögðu. Þá kannaðist hann við ok mælti: „Namn-

frægir eruð þér feðgar". „Hverr ert þú?" segir Helgi. „Kári heiti ek ok em Sölmundarson". „Hvaðan komt þú at?" segir Helgi. „Ór Suðreyjum", segir Kári. „Þá ert þú vel at kominn", segir Helgi, „ef þú vill veita oss nakkvat". „Veita slíkt sem þér þurfuð", segir Kári, „eða hvers beiðist þér?" „Veita þeim atlögu", segir Helgi. Kári sagði, at svá skyldi vera. Lögðu þeir þá at þeim, ok tókst þá bardagi í annat sinn. Enn er þeir hafa barizt um hríð, hleypr Kári upp á skip til Snækólfs. Hann snýr í móti Kára ok höggr til hans. Kári hleypr yfir slá eina, er lá um þvert skipit, aftr öfugr. Snækólfr hjó í slána, svá at fal báða eggteina sverðsins. Kári höggr til hans, ok kom sverðit á öxlina, ok varð höggit svá mikit, at hann klauf frá ofan höndina, ok hafði Snækólfr þegar bana. Grjótgarðr skaut spjóti til Kára. Kári sá þat ok hljóp í loft upp, enn spjótit misti hans. Í því váru þeir Grímr ok Helgi komnir til móts við Kára. Hleypr þá Helgi at Grjótgarði ok leggr sverði í gegnum hann, ok varð þat hans bani. Gengu þeir þá um skip öll með báðum borðum. Menn báðu sér þá griða. Gáfu þeir þá grið öllum, enn tóku fé alt. Eftir þat leggja þeir skipin öll undir eyjarnar út ok hvíldust þar um hríð.

85. Sigurðr hét jarl, er réð fyrir Orkneyjum. Hann var Hlöðvis son, Þorfinns sonar

hausakljúfs, Torf-Einars sonar, Rögnvalds sonar jarls af Mæri, Eysteins sonar glumru. Kári var hirðmaðr Sigurðar jarls ok hafði tekit skatta af Suðreyjum af Gilla jarli. Biðr hann þá Njálssonu fara með sér til Hrosseyjar ok sagði, at jarl myndi vel við þeim taka. Þeir þágu þat ok fóru með Kára ok kvámu til Hrosseyjar. Kári fylgir þeim á fund jarls ok sagði, hverir menn þeir váru. „Hversu kvámu þeir“, sagði jarl, „á þinn fund?“ „Ek fann þá“, segir Kári, „í Skotlandsfjörðum, ok börðust þeir við sonu Moldans ór Dungalsbæ; ok vörðust þeir svá vel, at þeir urpu sér jafnan meðal viðanna ok váru þar jafnan, sem mest var raunin. Ok vil ek nú biðja þeim hirðvistar með yðr, herra“. „Því skalt þú ráða“, segir jarl, „tekizt hefir þú svá mikit á hendr við þá áðr“. Þeir váru þá með jarli um vetrinn ok váru vel virðir. Enn er á leið vetrinn gerðist Helgi hljóðr. Jarl þóttist eigi vita, hví þat myndi sæta, ok spurði, hví Helgi væri hljóðr, eða hvat honum þætti — „eða þykki þér hér eigi gott?“ „Gott þykki mér hér“, segir Helgi. „Hvat hugsar þú þá?“ segir jarl. „Eiguð þér nakkvars ríkis at gæta á Skotlandi?“ segir Helgi. „Svá mun oss þykkja“, segir jarl, „eða hvat er at því?“ Helgi svarar: „Skotar munu hafa tekit sýslumann yðvarn af lífi ok tekit njósnir allar, at engar skyldi ganga mega yfir Pettlandsfjörð“. Jarl mælti: „Ert

þú forspár maðr?“ Helgi svarar: „Lítt er þat reynt“. „Auka skal ek sæmd þína“, segir jarl, „ef þetta er svá — ella mun þér gjald at verða“. „Ekki er hann þess háttar maðr“, segir Kári, „ok mun hann satt til segja; því at faðir hans er forspár“. Síðan sendi jarl menn suðr til Straumeyjar Arnljóti sýslumanni sínum. Eftir þat sendi Arnljótr menn suðr yfir Pettlandsfjörð — ok tóku þar njósnir ok fréttu þat at Hundi jarl ok Melsnati jarl höfðu tekit af lífi Hávarð í Þrasvík mág Sigurðar jarls. Sendi þá Arnljótr orð Sigurði jarli, at hann skyldi koma suðr með lið mikit ok reka jarla þessa af ríkinu. Enn þegar er jarl spurði þetta, dró hann her saman um allar eyjar.

86. Síðan fór jarl suðr með herinn, ok var Kári í för með honum ok svá Njálssynir. Þeir kvámu suðr við Katanes. Jarl átti þessi ríki í Skotlandi: Ross ok Mýræfi, syðri Lönd ok Dali. Kvámu þar at móti þeim menn af þeim ríkjum, ok sögðu at jarlar váru þaðan skamt í braut með her mikinn. Þá snýr Sigurðr jarl þangat herinum — ok heitir þar Dungalsgnípa, er fundrinn var fyrir ofan. Laust þegar í bardaga mikinn með þeim. Skotar höfðu látit fara sumt liðit laust, ok kom þat í opna skjöldu jarlsmönnum, ok varð þar mannfall mikit, þar til er þeir Njálssynir sneru í móti þeim ok börðust við þá ok kvámu þeim á flótta. Verðr þá þó

bardaginn harðr. Snúa þeir Grímr ok Helgi þá fram hjá merkinu jarls ok berjast hit djarfleg-asta. Nú snýr Kári í móti Melsnata jarli. Melsnati skaut spjóti at Kára. Kári hendi ok skaut aftr spjótinu ok í gegnum jarlinn. Þá flýði Hundi jarl. Enn þeir ráku flóttann alt þar til, er þeir spurðu til Melkólfs Skotakonungs, at hann dró her saman í Dungalsbæ. Átti jarl þá ráð við menn sína, ok sýndist þat öllum ráð at snúa aftr ok berjast eigi við svá mikinn landher. Sneru þeir þá aftr. Enn er jarl kom í Straumey, skifti hann þar herfangi. Síðan fór hann norðr til Hrosseyjar. Njálssynir fylgdu honum ok Kári. Jarl gerði þá veizlu mikla. Ok at þeiri veizlu gaf jarl Kára sverð gott ok spjót gullrekit, enn Helga gullhring ok skikkju, enn Grími skjöld ok sverð. Eftir þat gerði hann þá hirðmenn sína Grím ok Helga ok þakkaði þeim framgöngu góða. Þeir váru með jarli þann vetr ok um sumarit þar til er Kári fór í hernað. Þeir fóru með honum. Þeir herjuðu víða um sumarit ok fengu hvervetna sigr. Þeir börðust við Guðröð konung ór Mön ok sigruðu hann ok fóru við þat aftr ok höfðu fengit mikit fé. Váru þeir með jarli um vetrinn ok sátu þar í góðu yfirlæti. Um várit beiddust þeir Njálssynir at fara til Noregs. Jarl mælti, at þeir skyldu fara sem þeim líkaði, ok fekk þeim gott skip ok röskva menn.

Kári sagði þeim, at hann myndi þetta sumar koma til Noregs með skatta Hákonar jarls — „ok munu vér þá þar finnast“, segir Kári. Ok á þat sammæltust þeir at finnast þar. Síðan létu þeir Njálssynir út ok sigldu til Noregs ok kvámu norðr við Þrándheim. Dvöldu þeir þar.

87. Kolbeinn hét maðr ok var kallaðr Arnljótarson. Hann var þrænzkr maðr. Hann sigldi þat sumar út til Íslands, er Þráinn ok Njálssynir fóru utan. Hann var þann vetr í Breiðdal austr. Enn um sumarit eftir bjó hann skip sitt í Gautavík. Ok þá er þeir váru búnir, reri at þeim maðr á báti ok festi bátinn við skipit, enn gekk síðan upp á skipit til fundar við Kolbein. Kolbeinn spurði þenna mann at namni. „Hrappr heiti ek“, segir hann. „Hvers son ert þú?“ segir Kolbeinn. Hrappr svarar: „Ek em son Örgumleiða, Geirólfs sonar gerpis“. „Hvat vill þú mér?“ segir Kolbeinn. „Ek vil biðja þik“, segir Hrappr, „at þú flytir mik um haf“. Kolbeinn spyrr: „Hver nauðsyn er þér á?“ „Ek hefi vegit víg eitt“, segir Hrappr. „Hvert víg er þat“, segir Kolbeinn, „eða hverir eru til eftirmáls?“ Hrappr svarar: „Ek hefi vegit Örlyg Örlygsson, Hróðgeirs sonar hins hvíta. Enn til eftirmáls eru Vápnfirðingar“. „Þess get ek, at sá hafi verr, er þik flytr“, segir Kolbeinn. Hrappr mælti:

„Vinr em ek vinar míns — enn geld ek þat, er illa er til mín gert — enda skortir mik eigi fé til at leggja fyrir farit". Síðan tók Kolbeinn við Hrappi. Litlu síðar gaf byr ok sigla þeir í haf. Hrapp þraut vistir í hafi: settist hann þá at með þeim er næstir váru. Þeir spruttu upp með illyrðum. Ok svá kom, at þeir ráðast á — ok hefir Hrappr þá þegar undir tvá menn. Þá var sagt Kolbeini, ok bauð hann Hrappi í mötuneyti sitt, ok hann þá þat. Þeir koma af hafi ok leggja utan við Agðanes. Þá spyrr Kolbeinn Hrapp: „Hvar er fé þat, er þú bautt í leigu undir þik?" „Þat er út á Íslandi", segir Hrappr. Kolbeinn mælti: „Vera munt þú fleirum prettóttr enn mér; enn þó vil ek þér nú upp gefa alla leiguna". Hrappr bað hann hafa þökk fyrir — „eða hvat leggr þú nú til ráðs með mér?" „Þat fyrst", segir Kolbeinn, „at þú far sem bráðast frá skipi; því at allir austmenn munu illa túlka fyrir þér. Enn þó ræð ek þér þat annat heilræði, at þú svík aldri lánardróttin þinn". Síðan gekk Hrappr á land upp með vápnum sínum ok hafði öxi eina mikla í hendi vafinskeftu. Hann ferr þar til er hann kemr til Guðbrands í Dala. Hann var hinn mesti vin Hákonar jarls. Þeir áttu hof báðir saman; ok var því aldri upp lokit nema þá er jarl kom þangat. Þat var annat mest hof í Noregi — enn annat á Hlöðum. Þrándr hét

sonr Guðbrands, enn Guðrún dóttir. Hrappr gekk fyrir Guðbrand ok kvaddi hann vel. Guðbrandr spyrr, hvat manna hann væri. Hrappr sagði til namns síns ok þat með, at hann væri utan af Íslandi. Síðan biðr hann Guðbrand, at hann tæki við honum. Guðbrandr mælti: „Ekki lízt mér svá á þik, sem þú munir gæfumaðr vera“. „Mjök þykki mér ok logit frá þér“, segir Hrappr, „er þat var sagt, at þú tækir við öllum þeim er þik bæði ok engi maðr væri jafnágætr sem þú. Mun ek því í móti mæla, ef þú tekr eigi við mér“. Guðbrandr mælti: „Hér munt þú vera hljóta“. „Hvar vísar þú mér til sess?“ segir Hrappr. „Á hinn óæðra bekk“, segir Guðbrandr, „gegnt öndvegi mínu“. Hrappr fór í sæti sitt. Hann kunni frá mörgu at segja. Var þat fyrst, at Guðbrandi þótti gaman at ok mörgum öðrum; enn þó kom svá, at mörgum þótti ofkerski. Ok þar kom, at hann slóst á tal við Guðrúnu dóttur Guðbrands, svá at þat töluðu menn, at hann myndi fífla hana. Enn er Guðbrandr varð þess varr, taldi hann á hana mjök, er hon átti tal við Hrapp, ok bað hana varast at mæla nakkvat við hann svá at eigi heyrði allir menn. Hon hét góðu um fyrst, enn þó dró til vanda um tal þeira. Þá setti Guðbrandr til Ásvarð verkstjóra sinn at ganga með henni hvert er hon færi. Einu hverju sinni var þat, at hon beiddist at fara á hnot-

skóg at skemta sér ok fylgdi Ásvarðr henni. Hrappr leitar eftir þeim ok finnr þau á hnotskóginum. Hann tók í hönd Guðrúnu ok leiddi hana eina saman. Síðan fór Ásvarðr at leita hennar ok fann þau í runni einum liggja bæði saman. Hann hleypr at með öxi reidda ok hjó til fótar Hrapps, enn Hrappr brást við fast ok misti Ásvarðr hans. Hrappr spratt á fætr sem skjótast ok þreif öxi sína. Síðan vildi Ásvarðr undan snúast. Hrappr höggr í sundr í honum hrygginn. Þá mælti Guðrún: „Nú hefir þú þat unnit, er þú munt eigi með föður mínum lengr vera. Enn þó er þat sumt er honum mun enn verr þykkja — því at ek fer með barni“. Hrappr svarar: „Eigi skal hann þetta af öðrum spyrja, ok skal ek fara heim ok segja honum hvárttveggja“. „Þá munt þú eigi með fjörvi í braut komast“, segir hon. „Á þat skal hætta“, segir hann. Eftir þat fylgir hann henni til kvenna annarra, enn hann fór heim. Guðbrandr sat í öndvegi, ok var fátt manna í stofunni. Hrappr gekk fyrir hann ok bar hátt öxina. Guðbrandr spurði: „Hví er blóðug öx þín?“ „Ek gerða at bakverk Ásvarðar verkstjóra þíns“, segir Hrappr. „Þat mun eigi af góðu“, segir Guðbrandr, „þú munt hafa vegit hann“. „Svá er víst“, segir Hrappr. „Hvat var til saka?“ segir Guðbrandr. „Lítit mundi yðr þykkja“, segir Hrappr, „hann vildi höggva

af mér fótinn". „Hvat hafðir þú til gert áðr?" segir Guðbrandr. „Þat er hann átti engá sök á", segir Hrappr. „Þó mátt þú segja, hvat þat var", segir Guðbrandr. Hrappr mælti: „Ef þú vill þat vita, þá lá ek hjá Guðrúnu dóttur þinni — ok þótti honum þat illa". Guðbrandr mælti: „Standi menn upp ok taki hann, ok skal hann drepa". „Alllítt lætr þú mik njóta mágsemdar", segir Hrappr, „enn eigi hefir þú þat mannval at þetta muni skjótlega gera". Þeir stóðu upp, enn hann hopaði út undan. Þeir hlaupa eftir, enn hann kemst á skóg undan, ok höfðu þeir hans ekki. Guðbrandr samnar liði ok lét kanna skóginn — ok finna þeir hann eigi, því at skógrinn var mikill ok þröngr. Hrappr ferr um skóginn þar til er hann kom í rjóðr nakkvart. Þar fann hann húsabæ ok mann úti — ok klauf skíð. Hann spurði þenna mann at namni, ok nemndist hann Tófi. Tófi spurði at hans namni, ok nemndist Hrappr sem hann hét. Hrappr spyrr, hví bóndi bjoggi svá fjarri öðrum mönnum. „Því", sagði hann, „at ek þykkjumst hér lítt þurfa at ámast við aðra menn". „Vit förum kynlega með okkr um málin", segir Hrappr, „ok mun ek fyrri segja þér, hverr ek em: ek hefi verit með Guðbrandi í Dölum, ok stökk ek þaðan fyrir þat, at ek drap verkstjóra hans. Enn ek veit, at vit erum báðir illmenni — því at þú myndir

ekki hér kominn frá öðrum mönnum, nema þú værir nakkvars manns útlagi; — ok geri ek þér tvá kosti — at ek mun segja til þín eða vit njótim báðir jafnt þess er hér er". Bóndi mælti: „Þetta er jafnt sem þú segir: ek nam konu þessa, er hér er hjá mér, ok hefir margr maðr eftir mér leitat". Síðan leiddi hann Hrapp inn með sér. Þar váru hús lítil ok vel ger. Bóndi sagði húsfreyju sinni, at hann hafði Hrapp ráðit með sér. „Flestir munu af manni þessum ilt hljóta", segir hon, „enn þó munt þú ráða vilja". Síðan var Hrappr þar. Hann var förull mjök ok var aldri heima. Hann fær nát fundi Guðrúnar jafnan. Þeir sátu um hann feðgar Þrándr ok Guðbrandr — ok varð þat aldri, at þeir fengi færi á honum; ok fór svá fram öll þau missari. Guðbrandr lét segja Hákoni jarli, hver vandræði hann hafði af Hrappi. Jarl lét dæma Hrapp útlaga ok lagði fé til höfuðs honum, enn hét þó at fara sjálfr at leita eftir honum. Enn þat fórst þó fyrir; ok þótti jarli þeim sjálfrátt at taka hann, er hann fór svá óvarlega.

88. Þetta sumar hit sama kvámu þeir Njálssynir til Noregs af Orkneyjum ok váru þar í kaupstefnu ok biðu þar Kára Sölmundarsonar, sem þeir höfðu við mælzt. Þráinn Sigfússon bjó þá skip sitt til Íslands ok var nú mjök búinn. Þá fór Hákon jarl á veizlu til Guð-

brands. Um nóttina fór Víga-Hrappr til goðahúss þeira jarls ok Guðbrands. Hann gekk inn í húsit. Hann sá Þorgerði hölgabrúði sitja, ok var hon svá mikil sem maðr roskinn. Hon hafði mikinn gullhring á hendi ok fald á höfði. Hann sviftir faldinum hennar ok tekr af henni gullhringinn. Þá sér hann kerru Þórs ok tekr af honum annan gullhringinn. Hann tók hinn þriðja af Irpu ok dró þau öll út ok tók af þeim allan búnaðinn. Síðan lagði hann eld í goðahúsit ok brendi þat upp. Eftir þat gengr hann braut. Tók þá at morna. Hann gengr um akrland nakkvart. Þar spruttu upp sex menn með vápnum ok sækja þegar at honum. Enn hann verst vel. Verða þær málalyktir, at hann vegr þrjá menn, enn særir Þránd til ólífis, enn eltir tvá til skógar, svá at þeir báru enga njósn jarli. Hann gekk þá at Þrándi ok mælti: „Kosti á ek nú at vega þik — ok vil ek þat eigi: skal ek meira virða mágsemd við þik enn þér virðið við mik“. Hrappr ætlar nú at snúa aftr á skóginn. Sér hann nú at menn eru komnir meðal skógarins ok hans. Treystist hann þá eigi þangat á at leita. Legst hann þá niðr í runna nakkvara ok liggr þar um stund. Þeir Hákon jarl ok Guðbrandr gengu þenna morgin snimma til goðahússins ok fundu þat brunnit upp, enn úti þrjú goðin ok ór öllum skrúðanum. Þá tók Guðbrandr til orða: „Mikill máttr

er gefin goðum várum, er þau hafa gengið sjálf ór eldinum". „Eigi munu goðin þessu valda", segir jarl, „maðr mun brent hafa hofit enn borit út goðin. Enn goð hefna eigi alls þegar. Mun sá maðr braut rekinn ór Valhöllu ok þar aldri koma, er þetta hefir gert. Í því bili hljópu þangat menn jarls fjórir ok sögðu þeim ill tíðendi — kváðust fundit hafa á akrinum þrjá menn vegna, enn særðan Þránd til ólífis. „Hverr mun slíku valda?" segir jarl. „Víga-Hrappr", sögðu þeir. „Þá mun hann hafa brent goðahúsit", segir jarl. Þeim þótti hann víst til þess líklegr. „Hvar mun hann nú vera?" sagði jarl. Þeir sögðu, at Þrándr segði, at hann hefði lagzt niðr í runna nakkvara. Jarl ferr þangat at leita, ok var Hrappr þá allr í brautu. Skipaði jarl þá til at leita hans, ok fundu þeir hann eigi. Jarl var sjálfr í leitinni, ok bað hann þá hvílast fyrst. Jarl gekk þá einn saman braut frá öðrum mönnum ok bað engan mann með sér ganga ok dvaldist um stund. Hann fell á knébeð ok helt fyrir augu sér. Síðan gekk hann aftr til þeira. Hann mælti við þá: „Gangið þér með mér". Þeir gengu með honum. Hann gekk þvers af leiðinni, þeiri er þeir höfðu áðr farit, ok kvámu at dalverpi einu. Þar spratt Hrappr upp fyrir þeim, ok hafði hann þar fólgit sik áðr. Jarl eggjar menn at hlaupa eftir honum. Enn Hrappr var svá fót-

hvatr, at þeir kvámust hvergi í nánd honum. Hrappr stefndi til Hlaða. Þar váru þeir þá búnir til hafs hvárirtveggju Þráinn Sigfússon ok Njálssynir. Hrappr hleypr þar út, sem þeir eru fyrir Njálssynir. Hann mælti: „Bjargið mér, góðir drengir, því at jarl vill drepa mik“. Helgi leit við honum ok mælti: „Ógæfusamlega lízt mér á þik — ok mun sá betr hafa, er eigi tekr við þér“. „Þat mynda ek vilja“, sëgir Hrappr, „at þit hlytið af mér mest ilt“. „Menn eru vit til þess“, segir Helgi, „at launa þér þat þá er stundir líða“. Hrappr sneri þá til móts við Þráin Sigfússon ok bað hann ásjá. „Hvat er þér á höndum?“ segir Þráinn. Hrappr mælti: „Brent hefi ek goðahús fyrir jarli ok drepit menn nakkvara, ok mun hann hér koma bratt — því at hann er sjálfr í eftirleitinni“. „Varla samir mér þat“, segir Þráinn, „svá mikit gott sem jarl hefir mér gert“. Þá sýndi Hrappr Þráni gripina, þá er hann hafði borit ór goðahúsinu, ok bauð at gefa honum féit. Þráinn sagði, at hann myndi eigi þiggja, nema annat fé kvæmi í mót. Hrappr mælti: „Hér mun ek stað nema, ok skal mik hér drepa fyrir augum þér, ok munt þú þá bíða af hvers manns ámæli“. Þá sjá þeir ferð jarls ok manna hans. Þá tók Þráinn við Hrappi, enn lét skjóta báti ok fluttist út á skipit. Þráinn mælti: „Nú er þetta fylgsni helzt, at brjóta botn ór tunnum

tveim, ok skalt þú þar fara í". Svá var gert, at hann fór í tunnurnar — ok váru bundnar saman síðan ok látnar fyrir borð. Þá kemr jarl með liði sínu til Njálssona ok spurði, ef Hrappr hefði komit þar. Þeir sögðu, at hann kom. Jarl spurði, hvert hann færi þaðan. Þeir kváðust eigi reiður hafa á hent. Jarl mælti: „Sá skyldi mikla sæmd af mér hafa, er mér segði til Hrapps". Grímr mælti hljótt við Helga: „Fyrir hví skulu vit eigi segja? ek veit eigi, nema Þráinn launi okkr engu góðu". „Eigi skulu vit segja at heldr", segir Helgi, „þar er líf hans liggr við". Grímr mælti: „Vera kann, at jarl snúi á okkr hefndinni; því at hann er svá reiðr, at niðr mun nökkur verða at koma". „Ekki munu vit at því fara", segir Helgi, „enn þó skulu vit nú í braut leggja skipinu ok í haf þegar er gefr". „Skulu vit nú ekki bíða Kára?" segir Grímr. „Ekki mun ek um þat hirða nú", segir Helgi. Þeir leggja út undir eyna ok bíða þar byrjar. Jarl gekk at skipamönnum ok leitaði við alla þá; enn allir duldu, at né eitt vissi til Hrapps. Þá mælti jarl: „Nú munu vér fara at finna Þráin félaga minn — ok mun hann selja fram manninn, ef hann veit nakkvat til". Eftir þat tóku þeir langskip eitt ok fóru út til kaupskipsins. Þráinn kennir ferð jarls ok stendr upp ok fagnar honum blíðlega. Jarl tók því vel ok mælti

svá: „Manns þess leitu vér, er heitir Hrappr ok er íslenzkr. Hann hefir gert oss hvervetna illt. Vilju vér nú þess biðja yðr, at þér selið hann fram eða segið til hans“. Þráinn mælti: „Vissuð þér, at ek drap útlaga yðvarn, ok hætta þar til lífi mínu, ok þá ek fyrir þat af yðr stórsæmdir“. „Meiri sæmdir skalt þú nú hafa“, segir jarl. Þráinn hugsaði fyrir sér ok þóttist eigi vita, hvat jarl myndi mest meta — þrætir nú þó, at Hrappr sé þar, ok bað jarl leita. Jarl hafði lítit við þat ok gekk á land ok í braut frá öðrum mönnum ok var þá reiðr mjök, svá at engi maðr þorði við hann at mæla. Jarl mælti: „Vísi mér til Njálssona — ok skal ek nauðga þeim til, at þeir segi mér hit sanna“. Þá var honum sagt, at þeir höfðu út látit. „Ekki má þat þá“, segir jarl, „enn vatnkeröld tvau váru þar við skipit Þráins, ok má þar maðr vel hafa fólgizt í. Ok ef Þráinn hefir fólgit hann, þá mun hann þar í hafa verit. Ok munu vér nú fara í annat sinn at finna Þráin“. Þráinn sér þetta, at jarl ætlar enn út, ok mælti: „Svá reiðr sem jarl var næstum, þá mun hann nú vera hálfu reiðari — ok liggr nú við líf allra manna þeira er á skipinu eru, ef nakkvarr segir til Hrapps“. Þeir hétu allir at leyna; því at hverr var um sik mjök hræddr. Þeir tóku sekka nakkvara ór búlkanum, enn létu Hrapp koma þar í staðinn — fóru nú aðrir

sekkar á hann ofan, þeir er léttir váru. Nú kemr jarl, er þeir höfðu um Hrapp búit. Þráinn kvaddi vel jarl. Jarl tók kveðju hans ok ekki skjótt. Sá þeir at jarl var allmjök reiðr. Jarl mælti til Þráins: „Sel þú fram Hrapp; því at ek veit víst, at þú hefir fólgit hann“. „Hvar mun ek hafa fólgit hann, herra?“ segir Þráinn. „Þér mun þat kunnigast“, segir jarl, „enn ef ek skal geta til, þá ætla ek, at þú hafir áðan fólgit hann í vatnkeröldum þeim, er hér váru vit skipit“. „Eigi vilda ek, herra“, segir Þráinn, „at þér vændið mik lygi — heldr vilda ek, at þér leitaðið um skipit“. Þá fór jarl upp á skipit ok leitaði ok fann eigi. Þráinn mælti: „Berið þér mik nú undan, herra?“ „Fjarri fer þat“, segir jarl, „enn eigi veit ek, hví vér finnum hann eigi: ek þykkjumst sjá alt í gegnum, þá er ek kem á land; enn þá sé ek ekki til, er ek kem hér“. Lætr hann þá róa til lands með sik. Hann var svá reiðr, at ekki mátti við hann mæla. Sveinn son hans var þar með honum. Hann mælti: „Undarlegt skaplyndi er þat, at láta óverða menn gjalda reiði sinnar“. Jarl gekk þá enn einn frá öðrum mönnum. Síðan gekk hann þegar aftr til þeira ok mælti: „Róm vér enn út til þeira“. Þeir gerðu svá. „Hvar mun hann fólginn hafa verit?“ segir Sveinn. Jarl svaraði: „Eigi mun þat nú skifta; því at hann mun nú í brautu

vera þaðan. Sekkar tveir lágu þar hjá búlkanum, ok mun Hrappr þar hafa komit í staðinn þeira í búlkann". Þráinn tók til orða: „Fram hrinda þeir enn skipinu ok munu enn ætla út hingat til vár. Skulu vér nú taka hann ór búlkanum ok koma öðru í staðinn; enn þó skulu sekkarnir lausir". Þeir gerðu svá. Þá mælti Þráinn: „Látu vér Hrapp nú í seglit — þat er heflat upp við rána". Þeir gera svá. Jarl kemr nú til þeira. Var hann þá allreiðr ok mælti: „Vill þú nú selja fram manninn, Þráinn? ok er nú verr enn fyrr". Þráinn svarar: „Fyrir löngu selda ek hann fram, ef hann væri í minni varðveizlu — eða hvar mun hann verit hafa?" „Í búlkanum", segir jarl. „Hví leituðuð þér hans eigi þar þá?" segir Þráinn. „Eigi kom oss þat þá í hug", segir jarl. Síðan leituðu þeir hans um alt skipit ok fundu hann eigi. Þá mælti Þráinn: „Viljið þér mik nú undan bera, herra?" „Víst eigi", segir jarl, „því at ek veit, at þú hefir fólgit manninn, þó at ek finnag hann eigi. Enn heldr vil ek, at þú níðist á mér enn ek á þér". Fór jarl þá til lands. Nú þykkjumst ek sjá", sagði jarl, „hvar Þráinn hefir fólgit Hrapp". „Hvar?" sagði Sveinn son hans. „Í seglinu", segir jarl, „er var heflat upp við rána". Þá rann á byrr, ok sigldi Þráinn út ór firðinum til hafs. Hann mælti þá þetta, er lengi hefir uppi verit haft síðan:

(29) „Látum geisa Gamminn,
gerrat Þráinn vægja“.

Enn er jarl spurði orð Þráins, þá mælti hann: „Eigi berr hér til óvizka mín, heldr þat samband þeira, er þeim dregr báðum til bana“. Þráinn var skamma stund í hafi ok kom til Íslands ok fór heim til bús síns. Hrappr fór með Þráni ok var með honum þau misseri. Enn um várit eftir fekk Þráinn honum bú á Hrappstöðum, ok bjó Hrappr þar. Hann var þó lengstum at Grjótá ok þótti þar öllu spilla. Þat mæltu sumir menn, at vingott væri með þeim Hallgerði ok hann fífldi hana; enn sumir mæltu því í móti. Þráinn fekk skipit Merði órækju frænda sínum. Sá Mörðr vá Odd Halldórsson austr í Gautavík í Berufirði. Allir frændr Þráins heldu nú hann fyrir höfðingja.

89. Nú er þar til máls at taka, er Hákon jarl misti Þráins. Hann mælti þá við Svein son sinn: „Tökum langskip fjögur ok förum at Njálssonum ok drepum þá; því at þeir munu vitat hafa með Þráni“. „Þat er eigi gott ráð“, segir Sveinn, „at snúa sökum á óvalda menn, enn láta þann undan setja, er sökina berr á baki“. „Ek skal þessu ráða“, segir jarl. Halda þeir nú eftir Njálssonum ok leita þeira ok finna þá undir eyjunni. Grímr sá fyrst skip jarlsins ok mælti til Helga: „Herskip fara hér — ok kenni ek, at hér ferr jarl; ok mun hann oss

engan frið bjóða". „Þat er mælt", segir Helgi, „at hverr sé vaskr, er sik verr, við hvern sem hann á um. Skulu vér ok verja oss". Allir báðu hann fyrir sjá. Tóku þeir þá vápn sín. Jarl kemr nú at ok kallaði á þá ok bað þá upp gefast. Helgi svarar, at þeir mundu verjast meðan þeir mætti. Jarl bauð öllum grið þeim er eigi vildi verja hann. Enn svá var Helgi vinsæll, at allir vildu heldr deyja með honum. Jarl sækir nú at ok hans menn. Enn hinir verjast vel — ok váru þeir Njálssynir þar jafnan, sem mest var raunin. Jarl bauð þeim oft griðin. Þeir svöruðu jafnan hinu sama ok kváðust aldri upp skyldu gefast. Þá sótti at þeim fast Áslákr ór Langeyju lendr maðr jarls ok komst upp á skipit þrimr sinnum. Þá mælti Grimr: „Þú sækir fast at — ok væri vel, at þú hefðir eyrindi". Grímr þreif þá upp spjót ok skaut undir kverk Ásláki, ok hafði hann þegar bana. Litlu síðar vá Helgi Egil merkismann jarls. Þá sótti at Sveinn Hákonarson ok lét bera at þeim skjöldu, ok urðu þeir þá handteknir báðir Njálssynir. Jarl vildi þegar láta drepa þá. Enn Sveinn kvað þat eigi skyldu ok sagði, at væri nótt. Þá mælti jarl: „Drepi þá á morgin, enn bindi þá rammlega í nótt". „Svá mun vera verða", segir Sveinn, „enn eigi hefi ek vaskari menn fyrir fundit enn þessa, ok er þat hinn mesti mannskaði at

taka þá af lífi“. Jarl mælti: „Þeir hafa drepit tvá hina vöskustu vára menn — ok skulu vér þeira svá hefna, at þessa skal drepa“. „Menn váru þeir at vaskari“, segir Sveinn, „enn þó mun þetta gera verða sem þú vill“. Váru þeir þá bundnir ok fjötraðir. Eftir þat sofnaði jarl ok hans menn. Enn er þeir váru sofnaðir mælti Grímr til Helga: „Braut vilda ek komast ef ek mætta“. „Leitum í nakkvarra bragða þá“, segir Helgi. Grímr segir, at þar nær honum liggr öx ok horfir upp eggin. Grímr skreið þangat til ok fær skorit af sér bogastrenginn við öxinni, enn þó fekk hann sár mikil á höndunum. Þá leysti hann Helga. Eftir þat skreiddust þeir fyrir borð ok kvámust á land svá at þeir jarl yrðu ekki varir við. Þeir brutu af sér fjötrana ok gengu annan veg á eyna. Tók þá at morna. Þeir fundu þar skip ok kendu, at þar var kominn Kári Sölmundarson. Fóru þeir þegar á fund hans ok sögðu honum hrakning sína ok sýndu honum sár sín ok kváðu þá mundu jarl í svefni. Kári mælti: „Illa verðr slíkt, er þeir skulu taka hrakninga fyrir vánda menn, er saklausir eru. Eða hvat er nú gert næst skapi ykkru?“ „Fara at jarli“, sögðu þeir „ok drepa hann“. „Ekki mun oss þess auðit verða“, segir Kári, „enn ekki skortir ykkr áhuga. Enn þó skulu vér vita, hvárt hann er þar nú“. Síðan fóru þeir þangat, ok var þá

jarl í brautu. Þá fór Kári inn til Hlaða á fund jarls ok færði honum skatta sína. Jarl mælti: „Hefir þú tekit Njálssonu til þín?“ „Svá er víst“, segir Kári. „Vill þú selja mér þá?“ segir jarl. „Þat vil ek eigi“, sagði Kári. „Vill þú sverja þess, at þú vildir eigi at mér fara eftir?“ segir jarl. Þá mælti Eiríkr jarlsson: „Ekki er slíks at leita — hefir Kári jafnan verit vinr várr. Ok skyldi eigi svá farit hafa, ef ek hefða við verit: Njálssynir skyldi öllu hafa haldit heilu; enn hinir skyldu hafa haft refsing, er til höfðu gert. Þætti mér nú sannlegra at gefa Njálssonum sæmilegar gjafar fyrir hrakningar þær, er þeir hafa haft, ok sárafar“. Jarl mælti: „Svá myndi vera víst; enn eigi veit ek, hvárt þeir munu taka vilja sættir“. Þá mælti jarl við Kára, at hann skyldi leita um sættir við þá Njálssonu. Síðan ræddi Kári við Helga, hvárt hann vildi taka sæmdir af jarli. Helgi svaraði: „Taka vil ek af syni hans Eiríki, enn ek vil ekki eiga um við jarl“. Þá segir Kári Eiríki svör þeira bræðra. „Svá skal þá vera“, segir Eiríkr, „at þeir skulu af mér taka sæmdina, ef þeim þykkir þat betra; ok seg þeim þat, at ek býð þeim til mín — ok skal faðir minn ekki mein gera þeim“. Þetta þágu þeir ok fóru til Eiríks ok váru með honum þar til er Kári var búinn vestr at sigla. Þá gerði Eiríkr Kára veizlu ok gaf honum góðar gjafar

ok svá Njálssonum. Síðan fóru þeir Kári vestr um haf á fund Sigurðar jarls — ok tók hann við þeim allvel — ok váru með jarli um vetrinn. Enn um várit bað Kári Njálssonu, at þeir færi í hernað með honum. Enn Grímr kveðst þat mundu gera, ef hann vildi þá fara með þeim til Íslands. Kári hét því. Fóru þeir þá með honum í hernað. Þeir herjuðu suðr um Öngulseyjar ok allar Suðreyjar. Þá heldu þeir til Satíris ok gengu þar upp ok börðust við landsmenn ok fengu þar fé mikit ok fóru til skipa. Þaðan fóru þeir suðr til Bretlands ok herjuðu þar. Þá heldu þeir til Manar. Þar mættu þeir Guðröði konungi ór Mön ok börðust þeir við hann ok höfðu sigr ok drápu Dungal son konungs. Þar tóku þeir fé mikit. Þaðan heldu þeir norðr til Kolu ok fundu þar Gilla jarl, ok tók hann við þeim vel, ok dvöldust þeir með honum nakkvara hríð. Jarl fór með þeim til Orkneyja á fund Sigurðar jarls. Enn um várit gifti Sigurðr jarl Gilla jarli Nereiði systur sína. Fór hann þá í Suðreyjar.

**90.** Þetta sumar bjoggust þeir Kári ok Njálssynir til Íslands. Ok þá er þeir váru albúnir, gengu þeir á fund jarls. Hann gaf þeim góðar gjafar, ok skildu þeir með mikilli vináttu. Láta þeir nú í haf. Þeir hafa útivist skamma, ok gaf þeim vel byri — ok kvámu við Eyrar. Þeir fengu sér hesta ok ríða frá skipi ok riðu

til Bergþórshváls. Enn er þeir kvámu heim urðu allir menn þeim fegnir. Þeir fluttu heim fé sitt ok réðu skipi til hlunns. Þar var Kári þann vetr með Njáli. Enn um várit bað Kári Helgu dóttur Njáls, ok fluttu þeir Grímr ok Helgi með honum — ok lauk svá at hon var föstnuð Kára, ok var þá kveðit á brúðhlaupsstefnu, ok var boðit hálfum mánaði fyrir mitt sumar. Váru þau með Njáli þann vetr. Enn um várit keypti Kári land at Dyrhólmum austr í Mýdal ok gerði þar bú. Þau fengu þar fyrir ráðamann ok ráðakonu; enn þau váru með Njáli jafnan.

91. Hrappr átti bú á Hrappsstöðum; enn þó var hann jafnan at Grjótá, ok þótti hann þar öllu spilla. Þráinn var vel til hans. Einu hverju sinni var þat, þá er Ketill ór Mörk var at Bergþórshváli — þá sögðu Njálssynir frá hrakningum sínum ok kváðust mikit eiga at heimta at Þráni, nær sem þeir talaði til. Njáll sagði, at þat væri bezt, at Ketill talaði til við Þráin bróður sinn. Hann hét því. Gáfu þeir Katli tómstund til at tala við Þráin. Litlu síðar inti Ketill til við Þráin. Njálssynir fréttu Ketil. Enn hann kveðst fátt mundu frá herma orðum þeira — „enn þat fanst á, at Þráni þótta ek mikils virða mágsemd við yðr“. Síðan hættu þeir talinu; ok þóttust þeir sjá, at erfiðlega horfði, ok spurðu föður sinn ráðs, hversu

með skyldi fara — kváðust eigi una, at svá búit stæði. Njáll svaraði: „Eigi er slíkt svá óvant. Þat mun þykkja um sakleysi, ef þeir eru drepnir. Ok er þat mitt ráð at skjóta at sem flestum um at tala við þá, at sem flestum verði heyrinkunnigt, ef þeir svara illa. Ok skal Kári um tala; því at hann er skapdeildarmaðr. Mun þá vaxa óþokki með yðr; því at þeir munu hlaða illyrðum saman, er menn eigu hlut at: þeir eru menn heimskir. Þat kann ok vera, at mælt sé, at synir mínir sé seinir til atgerða — ok skuluð þér þat þola um stundarsakir; því at alt orkar tvímælis þá er gert er. Enn svá fremi skuluð þér orði á koma, er þér ætlið nakkvat at at gera, ef yðvar er illa leitat. Enn ef þér hefðið við mik um ráðit í fyrstu, þá myndi aldri orði á hafa verit komit, ok myndi yðr þá engi svívirðing at verða. Enn nú hafið þér af hina mestu raun — ok mun þat þó svá aukanda fara um yðra svívirðing, at þér munuð ekki fá at gert fyrr enn þér leggið vandræði á yðr ok vegið með vápnum; ok er því langa nót at at draga“. Eftir þat hættu þeir talinu. Ok varð hér margs manns umræða á. Einu hverju sinni var þat, at þeir bræðr töluðu til, at Kári myndi fara til Grjótár. Kára kveðst önnur ferð þykkja myndi betri; enn þó læzt hann fara mundu við þat er þetta váru ráð Njáls. Síðan ferr Kári til fund-

ar við Þráin. Tala þeir þá um málit, ok þykkir þeim eigi einn veg báðum. Kári kemr heim; ok spyrja Njálssynir, hversu orð fóru með þeim Þráni. Kári kvaðst ekki herma mundu orð þeira — „því at mér er ván, at mælt sé slíkt svá at þér heyrið“. Þráinn hafði sextán karla vígja á bæ sínum; ok riðu átta með honum, hvert er hann fór. Þráinn var skrautmenni mikit. Hann reið jafnan í blári kápu ok hafði gyldan hjálm og spjót í hendi jarlsnaut ok fagran skjöld — ok gyrðr sverði. Með honum var jafnan í för Gunnarr Lambason ok Lambi Sigurðarson ok Grani son Gunnars frá Hlíðarenda. Víga-Hrappr gekk honum þó næst jafnan. Loðinn hét ok heimamaðr hans; hann var ok í ferðum með Þráni. Tjörvi hét bróðir Loðins, er enn var í ferðum með Þráni. Þeir lögðu verst til þeira Njálssona Víga-Hrappr ok Grani Gunnarsson ok ollu því mest, er þeim var engi sæmd ger eða boðin. Synir Njáls ræddu nú um við Kára, at hann myndi fara með þeim til Grjótár. Ok þat gerði hann ok kvað þat vel, at þeir heyrði svör Þráins. Bjoggust þeir þá fjórir Njálssynir og Kári hinn fimti. Þeir fara til Grjótár. Þar var anddyri breitt, ok máttu margir menn standa jafnfram. Kona ein var úti ok sá ferð þeira ok segir Þráni. Hann bað menn ganga í anddyrit ok taka vápn sín. Þeir gerðu svá. Stóð Þráinn í miðjum durum.

Enn þeir stóðu til sinnar handar hvárr Víga-Hrappr ok Grani Gunnarsson, þar næst stóð Gunnarr Lambason, þá Loðinn ok Tjörvi, þá Lambi Sigurðarson, þá hverr at hendi; því at karlar váru allir heima. Þeir Skarpheðinn ganga at neðan — ok gekk hann fyrstr, þá Kári, þá Höskuldr, þá Grímr, þá Helgi. Enn er þeir kvámu at durunum fellust þeim allar kveðjur er fyrir váru. Þá mælti Skarpheðinn: „Allir sé vér velkomnir". Hallgerðr stóð í anddyrinu ok hafði talat hljótt við Hrapp. Hon mælti: „Þat mun engi mæla, sá er fyrir er, at þér séð velkomnir". Skarpheðinn mælti: „Ekki munu mega orð þín, því at þú ert annat hvárt hornkerling eða púta". Skarpheðinn kvað þá vísu:

(30) Auk munu elda síka
orð þín mega skorða
— gjarn seð ek ulf ok örnu —
ekki þessum rekkum.
Hornkerling ert Hernar
hrings víðs freka skíða
Baldr semr Óðins öldu
útigangs eða púta.

„Goldin skulu þér þessi orð, áðr þú ferr heim", segir Hallgerðr. Helgi mælti: „Þik em ek kominn at finna, Þráinn — ef þú vill gera mér sæmd nakkvara fyrir hrakningar þær er ek hlaut í Noregi fyrir þínar sakir". Þráinn mælti: „Aldri vissa ek, at þit bræðr myndið

gera drengskap ykkarn til fjár — eða hversu lengi skal fjárbón sjá yfir standa?“ „Þat munu margir mæla“, segir Helgi, „at þú ættir at bjóða sæmdina, þar sem líf þitt lá við“. Þá mælti Hrappr: „Þar gerði nú gæfumuninn, er sá hlaut skellinn er skyldi — ok dró yðr undir hrakningina enn oss undan“. „Lítil var þat gæfa“, segir Helgi, „at bregða trúnaði sínum við jarl enn taka þik við“. „Þykkist þú eigi at mér eiga bótina?“ segir Hrappr, „ek mun bæta þér því sem mér þykkir maklegt“. „Þau ein skifti muni vit við eigast“, segir Helgi, „at þér mun ekki betr gegna“. Skarpheðinn mælti: „Skiftið ekki orðum við Hrapp, enn gjaldið honum rauðan belg fyrir grán“. Hrappr mælti: „Þegi þú, Skarpheðinn, — ekki skal ek spara at bera mína öxi at höfði þér“. „Reynt mun slíkt verða“, segir Skarpheðinn, „hverr grjóti hleðr at höfði öðrum“. „Farið heim taðskeglingar“, segir Hallgerðr, „ok munu vér yðr svá jafnan kalla heðan í frá, enn föður yðvarn karl hinn skegglausa“. Þeir fóru eigi fyrr heim, enn allir urðu sekir þessa orða þeir er fyrir váru nema Þráinn. Hann þekti menn af orðum þessum. Þeir fóru í braut Njálssynir ok fóru þar til er þeir kvámu heim. Þeir sögðu föður sínum. „Nemnduð þér nakkvara vátta at orðunum?“ segir Njáll. „Enga“, sagði Skarpheðinn, „vér ætlum ekki at sækja þetta nema á

vápnaþingi". „Þat mun engi nú ætla", segir Bergþóra, „at þér þorið handa at hefja". „Haf þú lítinn við, húsfreyja", segir Kári, „at eggja sonu þína; því at þeir munu þó ærit framgjarnir". Eftir þat tala þeir lengi hljótt, allir feðgar ok Kári.

92. Nú verðr umræða mikil um deild þeira — ok þóttust allir vita, at eigi myndi svá gert sjatna. Rúnólfr son Úlfs örgoða austr í Dal var vin Þráins mikill ok hafði boðit Þráni heim; ok var á kveðit, at hann skyldi koma austr, er þrjár vikur væri af vetri eða mánaðr. Þráinn bað til þessar ferðar Hrapp með sér ok Grana Gunnarsson, Gunnar Lambason, Lamba Sigurðaron ok Loðin ok Tjörva. Þeir váru átta. Þær skyldu ok fara mæðgur, Hallgerðr ok Þorgerðr. Því lýsti ok Þráinn, at hann ætlaði at vera í Mörk með Katli bróður sínum, ok kvað á, hversu margar nætr hann ætlaði heiman at vera. Þeir höfðu allir alvæpni. Riðu þeir austr yfir Markarfljót ok fundu þar konur snauðar. Þær báðu, at þær skyldi reiða vestr yfir fljótit. Þeir gerðu svá. Þá riðu þeir í Dal ok höfðu þar góðar viðtökur. Þar var fyrir Ketill ór Mörk. Sátu þeir þar tvær nætr. Rúnólfr ok Ketill báðu Þráin, at hann myndi semja við Njálssonu. Enn hann lézt aldri mundu fé gjalda ok svaraði stygt ok kveðst hvergi þykkja varbúinn við Njálssonum, hvar

sem þeir fyndist. „Vera má, at svá sé“, segir Rúnólfr, „enn ek hefi hina skilning, at engi sé þeira maki, síz Gunnarr at Hlíðarenda lézt; ok er þat líkara, at hér dragi öðrum hvárum til bana“. Þráinn kveðst ekki þat mundu hræðast. Þá fór Þráinn upp í Mörk ok var þar tvær nætr. Síðan reið hann ofan í Dal, ok var hann hvartveggja út leystr með sæmilegum gjöfum. Markarfljót fell í meðal höfuðísa ok váru á smár spengr hér ok hvar. Þráinn sagði, at hann ætlaði heim at ríða um kveldit. Rúnólfr mælti, at hann skyldi eigi heim ríða — sagði þat varlegra vera, at fara eigi sem hann hefði sagt. Þráinn svarar: „Hræðsla er þat, ok vil ek þat eigi“. Göngukonur þær, er þeir Þráinn reiddu yfir fljótit, kvámu til Bergþórshváls, ok spurði Bergþóra, hvaðan þær væri. Enn þær sögðust vera austan undan Eyjafjöllum. „Hverr reiddi yðr yfir Markarfljót?“ segir Bergþóra. „Þeir er mestir oflátar váru“, segja þær. „Hverir váru þeir?“ segir Bergþóra. „Þráinn Sigfússon“, sögðu þær, „ok fylgdarmenn hans. Enn þat þótti oss at, er þeir váru svá fjölorðir ok illorðir hingat til bónda þíns ok sona hans“. Bergþóra mælti: „Margir kjósa eigi orð á sik“. Síðan fóru þær í braut ok gaf Bergþóra þeim gýligjafar ok spurði þær, hvénær Þráinn myndi heim koma. Þær sögðu, at hann myndi vera heiman fjórar

nætr eða fimm. Síðan sagði Bergþóra sonum sínum ok Kára mági sínum, ok töluðu þau lengi leynilega. Enn þann morgin hinn sama, er þeir Þráin riðu austan, þá vaknaði Njáll snimma ok heyrði, at öx Skarpheðins kom við þili. Stendr þá Njáll upp ok gengr út. Hann sér, at synir hans eru með vápnum allir ok svá Kári mágr hans. Skarpheðinn var fremstr. Hann var í blám stakki ok hafði törguskjöld ok öxi sína reidda um öxl. Næst honum gekk Kári. Hann hafði silkitreyju ok hjálm gyldan, skjöld ok var dreginn á leó. Næst honum gekk Helgi. Hann hafði rauðan kyrtil ok hjálm ok rauðan skjöld ok markaðr á hjörtr. Allir váru þeir í litklæðum. Njáll kallaði á Skarpheðinn: „Hvert skal fara, frændi?“ „Í sauðaleit“, sagði hann. „Svá var ok eitt sinn fyrr“, segir Njáll, „ok veidduð þér þá menn“. Skarpheðinn hló at ok mælti: „Heyrið þér, hvat karlinn segir faðir várr? eigi er hann grómlauss“. „Hvénær mæltir þú þetta fyrr?“ segir Kári. „Þá vá ek Sigmund hinn hvíta, frænda Gunnars“, segir Skarpheðinn. „Fyrir hvat?“ sagði Kári. „Hann hafði drepit Þórð leysingjason fóstra várn“, segir Skarpheðinn. Njáll gekk inn. Enn þeir fóru upp í Rauðaskriður ok biðu þar. Máttu þeir þaðan sjá, þegar hinir riðu austr frá Dal. Sólskin var um daginn ok heiðviðri. Nú ríða þeir Þráinn ofan frá Dal eftir eyrunum. Lambi

sem þeir fyndist. „Vera má, at svá sé“, segir Rúnólfr, „enn ek hefi hina skilning, at engi sé þeira maki, síz Gunnarr· at Hlíðarenda lézt; ok er þat líkara, at hér dragi öðrum hvárum til bana“. Þráinn kveðst ekki þat mundu hræðast. Þá fór Þráinn upp í Mörk ok var þar tvær nætr. Síðan reið hann ofan í Dal, ok var hann hvartveggja út leystr með sæmilegum gjöfum. Markarfljót fell í meðal höfuðísa ok váru á smár spengr hér ok hvar. Þráinn sagði, at hann ætlaði heim at ríða um kveldit. Rúnólfr mælti, at hann skyldi eigi heim ríða — sagði þat varlegra vera, at fara eigi sem hann hefði sagt. Þráinn svarar: „Hræðsla er þat, ok vil ek þat eigi“. Göngukonur þær, er þeir Þráinn reiddu yfir fljótit, kvámu til Bergþórshváls, ok spurði Bergþóra, hvaðan þær væri. Enn þær sögðust vera austan undan Eyjafjöllum. „Hverr reiddi yðr yfir Markarfljót?“ segir Bergþóra. „Þeir er mestir oflátar váru“, segja þær. „Hverir váru þeir?“ segir Bergþóra. „Þráinn Sigfússon“, sögðu þær, „ok fylgdarmenn hans. Enn þat þótti oss at, er þeir váru svá fjölorðir ok illorðir hingat til bónda þíns ok sona hans“. Bergþóra mælti: „Margir kjósa eigi orð á sik“. Síðan fóru þær í braut ok gaf Bergþóra þeim gýligjafar ok spurði þær, hvénær Þráinn myndi heim koma. Þær sögðu, at hann myndi vera heiman fjórar

nætr eða fimm. Síðan sagði Bergþóra sonum sínum ok Kára mági sínum, ok töluðu þau lengi leynilega. Enn þann morgin hinn sama, er þeir Þráin riðu austan, þá vaknaði Njáll snimma ok heyrði, at öx Skarpheðins kom við þili. Stendr þá Njáll upp ok gengr út. Hann sér, at synir hans eru með vápnum allir ok svá Kári mágr hans. Skarpheðinn var fremstr. Hann var í blám stakki ok hafði törguskjöld ok öxi sína reidda um öxl. Næst honum gekk Kári. Hann hafði silkitreyju ok hjálm gyldan, skjöld ok var dreginn á leó. Næst honum gekk Helgi. Hann hafði rauðan kyrtil ok hjálm ok rauðan skjöld ok markaðr á hjörtr. Allir váru þeir í litklæðum. Njáll kallaði á Skarpheðinn: „Hvert skal fara, frændi?“ „Í sauðaleit“, sagði hann. „Svá var ok eitt sinn fyrr“, segir Njáll, „ok veidduð þér þá menn“. Skarpheðinn hló at ok mælti: „Heyrið þér, hvat karlinn segir faðir várr? eigi er hann grómlauss“. „Hvénær mæltir þú þetta fyrr?“ segir Kári. „Þá vá ek Sigmund hinn hvíta, frænda Gunnars“, segir Skarpheðinn. „Fyrir hvat?“ sagði Kári. „Hann hafði drepit Þórð leysingjason fóstra várn“, segir Skarpheðinn. Njáll gekk inn. Enn þeir fóru upp í Rauðaskriður ok biðu þar. Máttu þeir þaðan sjá, þegar hinir riðu austr frá Dal. Sólskin var um daginn ok heiðviðri. Nú ríða þeir Þráinn ofan frá Dal eftir eyrunum. Lambi

jarl í brautu. Þá fór Kári inn til Hlaða á fund jarls ok færði honum skatta sína. Jarl mælti: „Hefir þú tekit Njálssonu til þín?“ „Svá er víst“, segir Kári. „Vill þú selja mér þá?“ segir jarl. „Þat vil ek eigi“, sagði Kári. „Vill þú sverja þess, at þú vildir eigi at mér fara eftir?“ segir jarl. Þá mælti Eiríkr jarlsson: „Ekki er slíks at leita — hefir Kári jafnan verit vinr várr. Ok skyldi eigi svá farit hafa, ef ek hefða við verit: Njálssynir skyldi öllu hafa haldit heilu; enn hinir skyldu hafa haft refsing, er til höfðu gert. Þætti mér nú sannlegra at gefa Njálssonum sæmilegar gjafar fyrir hrakningar þær, er þeir hafa haft, ok sárafar“. Jarl mælti: „Svá myndi vera víst; enn eigi veit ek, hvárt þeir munu taka vilja sættir“. Þá mælti jarl við Kára, at hann skyldi leita um sættir við þá Njálssonu. Síðan ræddi Kári við Helga, hvárt hann vildi taka sæmdir af jarli. Helgi svaraði: „Taka vil ek af syni hans Eiríki, enn ek vil ekki eiga um við jarl“. Þá segir Kári Eiríki svör þeira bræðra. „Svá skal þá vera“, segir Eiríkr, „at þeir skulu af mér taka sæmdina, ef þeim þykkir þat betra; ok seg þeim þat, at ek býð þeim til mín — ok skal faðir minn ekki mein gera þeim“. Þetta þágu þeir ok fóru til Eiríks ok váru með honum þar til er Kári var búinn vestr at sigla. Þá gerði Eiríkr Kára veizlu ok gaf honum góðar gjafar

ok svá Njálssonum. Síðan fóru þeir Kári vestr um haf á fund Sigurðar jarls — ok tók hann við þeim allvel — ok váru með jarli um vetrinn. Enn um várit bað Kári Njálssonu, at þeir færi í hernað með honum. Enn Grímr kveðst þat mundu gera, ef hann vildi þá fara með þeim til Íslands. Kári hét því. Fóru þeir þá með honum í hernað. Þeir herjuðu suðr um Öngulseyjar ok allar Suðreyjar. Þá heldu þeir til Satíris ok gengu þar upp ok börðust við landsmenn ok fengu þar fé mikit ok fóru til skipa. Þaðan fóru þeir suðr til Bretlands ok herjuðu þar. Þá heldu þeir til Manar. Þar mættu þeir Guðröði konungi ór Mön ok börðust þeir við hann ok höfðu sigr ok drápu Dungal son konungs. Þar tóku þeir fé mikit. Þaðan heldu þeir norðr til Kolu ok fundu þar Gilla jarl, ok tók hann við þeim vel, ok dvöldust þeir með honum nakkvara hríð. Jarl fór með þeim til Orkneyja á fund Sigurðar jarls. Enn um várit gifti Sigurðr jarl Gilla jarli Nereiði systur sína. Fór hann þá í Suðreyjar.

**90.** Þetta sumar bjoggust þeir Kári ok Njálssynir til Íslands. Ok þá er þeir váru albúnir, gengu þeir á fund jarls. Hann gaf þeim góðar gjafar, ok skildu þeir með mikilli vináttu. Láta þeir nú í haf. Þeir hafa útivist skamma, ok gaf þeim vel byri — ok kvámu við Eyrar. Þeir fengu sér hesta ok ríða frá skipi ok riðu

til Bergþórshváls. Enn er þeir kvámu heim urðu allir menn þeim fegnir. Þeir fluttu heim fé sitt ok réðu skipi til hlunns. Þar var Kári þann vetr með Njáli. Enn um várit bað Kári Helgu dóttur Njáls, ok fluttu þeir Grímr ok Helgi með honum — ok lauk svá at hon var föstnuð Kára, ok var þá kveðit á brúðhlaupsstefnu, ok var boðit hálfum mánaði fyrir mitt sumar. Váru þau með Njáli þann vetr. Enn um várit keypti Kári land at Dyrhólmum austr í Mýdal ok gerði þar bú. Þau fengu þar fyrir ráðamann ok ráðakonu; enn þau váru með Njáli jafnan.

91. Hrappr átti bú á Hrappsstöðum; enn þó var hann jafnan at Grjótá, ok þótti hann þar öllu spilla. Þráinn var vel til hans. Einu hverju sinni var þat, þá er Ketill ór Mörk var at Bergþórshváli — þá sögðu Njálssynir frá hrakningum sínum ok kváðust mikit eiga at heimta at Þráni, nær sem þeir talaði til. Njáll sagði, at þat væri bezt, at Ketill talaði til við Þráin bróður sinn. Hann hét því. Gáfu þeir Katli tómstund til at tala við Þráin. Litlu síðar inti Ketill til við Þráin. Njálssynir fréttu Ketil. Enn hann kveðst fátt mundu frá herma orðum þeira — „enn þat fanst á, at Þráni þótta ek mikils virða mágsemd við yðr“. Síðan hættu þeir talinu; ok þóttust þeir sjá, at erfiðlega horfði, ok spurðu föður sinn ráðs, hversu

með skyldi fara — kváðust eigi una, at svá búit stæði. Njáll svaraði: „Eigi er slíkt svá óvant. Þat mun þykkja um sakleysi, ef þeir eru drepnir. Ok er þat mitt ráð at skjóta at sem flestum um at tala við þá, at sem flestum verði heyrinkunnigt, ef þeir svara illa. Ok skal Kári um tala; því at hann er skapdeildarmaðr. Mun þá vaxa óþokki með yðr; því at þeir munu hlaða illyrðum saman, er menn eigu hlut at: þeir eru menn heimskir. Þat kann ok vera, at mælt sé, at synir mínir sé seinir til atgerða — ok skuluð þér þat þola um stundarsakir; því at alt orkar tvímælis þá er gert er. Enn svá fremi skuluð þér orði á koma, er þér ætlið nakkvat at at gera, ef yðvar er illa leitat. Enn ef þér hefðið við mik um ráðit í fyrstu, þá myndi aldri orði á hafa verit komit, ok myndi yðr þá engi svívirðing at verða. Enn nú hafið þér af hina mestu raun — ok mun þat þó svá aukanda fara um yðra svívirðing, at þér munuð ekki fá at gert fyrr enn þér leggið vandræði á yðr ok vegið með vápnum; ok er því langa nót at at draga". Eftir þat hættu þeir talinu. Ok varð hér margs manns umræða á. Einu hverju sinni var þat, at þeir bræðr töluðu til, at Kári myndi fara til Grjótár. Kára kveðst önnur ferð þykkja myndi betri; enn þó læzt hann fara mundu við þat er þetta váru ráð Njáls. Síðan ferr Kári til fund-

ar við Þráin. Tala þeir þá um málit, ok þykkir þeim eigi einn veg báðum. Kári kemr heim; ok spyrja Njálssynir, hversu orð fóru með þeim Þráni. Kári kvaðst ekki herma mundu orð þeira — „því at mér er ván, at mælt sé slíkt svá at þér heyrið“. Þráinn hafði sextán karla vígja á bæ sínum; ok riðu átta með honum, hvert er hann fór. Þráinn var skrautmenni mikit. Hann reið jafnan í blári kápu ok hafði gyldan hjálm og spjót í hendi jarlsnaut ok fagran skjöld — ok gyrðr sverði. Með honum var jafnan í för Gunnarr Lambason ok Lambi Sigurðarson ok Grani son Gunnars frá Hlíðarenda. Víga-Hrappr gekk honum þó næst jafnan. Loðinn hét ok heimamaðr hans; hann var ok í ferðum með Þráni. Tjörvi hét bróðir Loðins, er enn var í ferðum með Þráni. Þeir lögðu verst til þeira Njálssona Víga-Hrappr ok Grani Gunnarsson ok ollu því mest, er þeim var engi sæmd ger eða boðin. Synir Njáls ræddu nú um við Kára, at hann myndi fara með þeim til Grjótár. Ok þat gerði hann ok kvað þat vel, at þeir heyrði svör Þráins. Bjoggust þeir þá fjórir Njálssynir og Kári hinn fimti. Þeir fara til Grjótár. Þar var anddyri breitt, ok máttu margir menn standa jafnfram. Kona ein var úti ok sá ferð þeira ok segir Þráni. Hann bað menn ganga í anddyrit ok taka vápn sín. Þeir gerðu svá. Stóð Þráinn í miðjum durum.

Enn þeir stóðu til sinnar handar hvárr Víga-Hrappr ok Grani Gunnarsson, þar næst stóð Gunnarr Lambason, þá Loðinn ok Tjörvi, þá Lambi Sigurðarson, þá hverr at hendi; því at karlar váru allir heima. Þeir Skarpheðinn ganga at neðan — ok gekk hann fyrstr, þá Kári, þá Höskuldr, þá Grímr, þá Helgi. Enn er þeir kvámu at durunum fellust þeim allar kveðjur er fyrir váru. Þá mælti Skarpheðinn: „Allir sé vér velkomnir". Hallgerðr stóð í anddyrinu ok hafði talat hljótt við Hrapp. Hon mælti: „Þat mun engi mæla, sá er fyrir er, at þér séð velkomnir". Skarpheðinn mælti: „Ekki munu mega orð þín, því at þú ert annat hvárt hornkerling eða púta". Skarpheðinn kvað þá vísu:

(30) Auk munu elda síka
orð þín mega skorða
— gjarn seð ek ulf ok örnu —
ekki þessum rekkum.
Hornkerling ert Hernar
hrings viðs freka skíða
Baldr semr Óðins öldu
útigangs eða púta.

„Goldin skulu þér þessi orð, áðr þú ferr heim", segir Hallgerðr. Helgi mælti: „Þik em ek kominn at finna, Þráinn — ef þú vill gera mér sæmd nakkvara fyrir hrakningar þær er ek hlaut í Noregi fyrir þínar sakir". Þráinn mælti: „Aldri vissa ek, at þit bræðr myndið

gera drengskap ykkarn til fjár — eða hversu lengi skal fjárbón sjá yfir standa?" „Þat munu margir mæla", segir Helgi, „at þú ættir at bjóða sæmdina, þar sem líf þitt lá við". Þá mælti Hrappr: „Þar gerði nú gæfumuninn, er sá hlaut skellinn er skyldi — ok dró yðr undir hrakningina enn oss undan". „Lítil var þat gæfa", segir Helgi, „at bregða trúnaði sínum við jarl enn taka þik við". „Þykkist þú eigi at mér eiga bótina?" segir Hrappr, „ek mun bæta þér því sem mér þykkir maklegt". „Þau ein skifti muni vit við eigast", segir Helgi, „at þér mun ekki betr gegna". Skarpheðinn mælti: „Skiftið ekki orðum við Hrapp, enn gjaldið honum rauðan belg fyrir grán". Hrappr mælti: „Þegi þú, Skarpheðinn, — ekki skal ek spara at bera mína öxi at höfði þér". „Reynt mun slíkt verða", segir Skarpheðinn, „hverr grjóti hleðr at höfði öðrum". „Farið heim taðskeglingar", segir Hallgerðr, „ok munu vér yðr svá jafnan kalla heðan í frá, enn föður yðvarn karl hinn skegglausa". Þeir fóru eigi fyrr heim, enn allir urðu sekir þessa orða þeir er fyrir váru nema Þráinn. Hann þekti menn af orðum þessum. Þeir fóru í braut Njálssynir ok fóru þar til er þeir kvámu heim. Þeir sögðu föður sínum. „Nemnduð þér nakkvara vátta at orðunum?" segir Njáll. „Enga", sagði Skarpheðinn, „vér ætlum ekki at sækja þetta nema á

vápnaþingi". „Þat mun engi nú ætla", segir Bergþóra, „at þér þorið handa at hefja". „Haf þú lítinn við, húsfreyja", segir Kári, „at eggja sonu þína; því at þeir munu þó ærit framgjarnir". Eftir þat tala þeir lengi hljótt, allir feðgar ok Kári.

92. Nú verðr umræða mikil um deild þeira — ok þóttust allir vita, at eigi myndi svá gert sjatna. Rúnólfr son Úlfs örgoða austr í Dal var vin Þráins mikill ok hafði boðit Þráni heim; ok var á kveðit, at hann skyldi koma austr, er þrjár vikur væri af vetri eða mánaðr. Þráinn bað til þessar ferðar Hrapp með sér ok Grana Gunnarsson, Gunnar Lambason, Lamba Sigurðarson ok Loðin ok Tjörva. Þeir váru átta. Þær skyldu ok fara mæðgur, Hallgerðr ok Þorgerðr. Því lýsti ok Þráinn, at hann ætlaði at vera í Mörk með Katli bróður sínum, ok kvað á, hversu margar nætr hann ætlaði heiman at vera. Þeir höfðu allir alvæpni. Riðu þeir austr yfir Markarfljót ok fundu þar konur snauðar. Þær báðu, at þær skyldi reiða vestr yfir fljótit. Þeir gerðu svá. Þá riðu þeir í Dal ok höfðu þar góðar viðtökur. Þar var fyrir Ketill ór Mörk. Sátu þeir þar tvær nætr. Rúnólfr ok Ketill báðu Þráin, at hann myndi semja við Njálssonu. Enn hann lézt aldri mundu fé gjalda ok svaraði stygt ok kveðst hvergi þykkja varbúinn við Njálssonum, hvar

sem þeir fyndist. „Vera má, at svá sé“, segir Rúnólfr, „enn ek hefi hina skilning, at engi sé þeira maki, síz Gunnarr at Hlíðarenda lézt; ok er þat líkara, at hér dragi öðrum hvárum til bana“. Þráinn kveðst ekki þat mundu hræðast. Þá fór Þráinn upp í Mörk ok var þar tvær nætr. Síðan reið hann ofan í Dal, ok var hann hvartveggja út leystr með sæmilegum gjöfum. Markarfljót fell í meðal höfuðísa ok váru á smár spengr hér ok hvar. Þráinn sagði, at hann ætlaði heim at ríða um kveldit. Rúnólfr mælti, at hann skyldi eigi heim ríða — sagði þat varlegra vera, at fara eigi sem hann hefði sagt. Þráinn svarar: „Hræðsla er þat, ok vil ek þat eigi“. Göngukonur þær, er þeir Þráinn reiddu yfir fljótit, kvámu til Bergþórshváls, ok spurði Bergþóra, hvaðan þær væri. Enn þær sögðust vera austan undan Eyjafjöllum. „Hverr reiddi yðr yfir Markarfljót?“ segir Bergþóra. „Þeir er mestir oflátar váru“, segja þær. „Hverir váru þeir?“ segir Bergþóra. „Þráinn Sigfússon“, sögðu þær, „ok fylgdarmenn hans. Enn þat þótti oss at, er þeir váru svá fjölorðir ok illorðir hingat til bónda þíns ok sona hans“. Bergþóra mælti: „Margir kjósa eigi orð á sik“. Síðan fóru þær í braut ok gaf Bergþóra þeim gýligjafar ok spurði þær, hvénær Þráinn myndi heim koma. Þær sögðu, at hann myndi vera heiman fjórar

nætr eða fimm. Síðan sagði Bergþóra sonum sínum ok Kára mági sínum, ok töluðu þau lengi leynilega. Enn þann morgin hinn sama, er þeir Þráin riðu austan, þá vaknaði Njáll snimma ok heyrði, at öx Skarpheðins kom við þili. Stendr þá Njáll upp ok gengr út. Hann sér, at synir hans eru með vápnum allir ok svá Kári mágr hans. Skarpheðinn var fremstr. Hann var í blám stakki ok hafði törguskjöld ok öxi sína reidda um öxl. Næst honum gekk Kári. Hann hafði silkitreyju ok hjálm gyldan, skjöld ok var dreginn á leó. Næst honum gekk Helgi. Hann hafði rauðan kyrtil ok hjálm ok rauðan skjöld ok markaðr á hjörtr. Allir váru þeir í litklæðum. Njáll kallaði á Skarpheðinn: „Hvert skal fara, frændi?“ „Í sauðaleit“, sagði hann. „Svá var ok eitt sinn fyrr“, segir Njáll, „ok veidduð þér þá menn“. Skarpheðinn hló at ok mælti: „Heyrið þér, hvat karlinn segir faðir várr? eigi er hann grómlauss“. „Hvénær mæltir þú þetta fyrr?“ segir Kári. „Þá vá ek Sigmund hinn hvíta, frænda Gunnars“, segir Skarpheðinn. „Fyrir hvat?“ sagði Kári. „Hann hafði drepit Þórð leysingjason fóstra várn“, segir Skarpheðinn. Njáll gekk inn. Enn þeir fóru upp í Rauðaskriður ok biðu þar. Máttu þeir þaðan sjá, þegar hinir riðu austr frá Dal. Sólskin var um daginn ok heiðviðri. Nú ríða þeir Þráinn ofan frá Dal eftir eyrunum. Lambi

Sigurðarson mælti: „Skildir blika við í Rauðaskriðum, er sólin skínn á; ok mun þar vera nakkvarra manna fyrirsát“. „Þá skulu vér snúa ofan með fljótinu“, segir Þráinn, „ok munu þeir þá til móts við oss, ef þeir eigu við oss nökkur eyrendi“. Sneru þeir Þráinn þá ofan með fljótinu. Skarpheðinn mælti: „Nú hafa þeir sét oss — því snúa þeir nú leiðinni; ok er oss nú engi annarr til enn hlaupa ofan fyrir þá“. Kári mælti: „Margir munu fyrir sitja ok hafa eigi þann veg liðsmun sem vér. Eru þeir átta, enn vér fimm“. Snúa þeir nú ok ofan með fljótinu ok sjá yfir spöng niðri ok ok ætla þar yfir. Þeir Þráinn námu staðar upp frá spönginni á ísinum. Þráinn mælti: „Hvat munu menn þessir vilja? Þeir eru fimm, enn vér erum átta“. Lambi Sigurðarson mælti: „Þess get ek, at þó myndi þeir til hætta, þó at manni stæði fleira fyrir“. Þráinn ferr af kápunni ok tekr af sér hjálminn. Þat varð Skarpheðni, er þeir hljópu ofan með fljótinu, at stökk í sundr skóþvengr hans, ok dvaldist honum eftir. „Hví hvikast þér svá, Skarpheðinn?“ kvað Grímr. „Bind ek skó minn“, segir Skarpheðinn. „Föru vér fyrir“, segir Kári, „svá lízt mér á Skarpheðin, sem hann muni ekki seinni verða enn vér“. Snúa þeir nú ofan til spangarinnar ok fara mikinn. Skarpheðinn spratt upp, þegar er hann hafði bundit skóinn,

ok hafði uppi öxina Rimmugýgi. Hann hleypr at fram at fljótinu. Enn fljótit var svá djúpt at langt var um ófært. Mikit svell var hlaupit upp fyrir austan fljótit ok svá hált sem gler, ok stóðu þeir Þráinn á miðju svellinu. Skarphefr sik á loft ok hleypr yfir fljótit meðal höfuðísa ok stöðvar sik ekki ok rennir þegar at fram fótskriðu. Svellit var hált mjök — ok fór hann svá hart sem fugl flygi. Þráinn ætlaði í því at setja á sik hjálminn. Skarpheðin bar nú upp at fyrr — ok höggr til Þráins með öxinni Rimmugýgi, ok kom í höfuðit ok klauf ofan í jaxlana, svá at þeir fellu niðr á ísinn. Þessi atburðr varð með svá skjótri svipan, at engi kom höggvi á hann. Hann rendi þegar frá ofan óðfluga. Tjörvi rendi fyrir hann törgu, ok steðjaði hann yfir upp ok stóðst þó ok rennir á enda svellsins. Þá komu þeir Kári at neðan í mót honum. „Karlmannlega er at farit“, segir Kári. „Eftir er enn yðvarr hluti“, segir Skarpheðinn ok kvað vísu:

(31) Auðs kom ek eigi síðar
enn til vápna sennu
ér því at œskirýri
allharðan létk falla.
Enn því at jarl hrauð unnar
elg fyr Grím ok Helga,
nú er eldviðum öldu
efni þess at hefna.

Ok þessa aðra:

(32) Brátt létk brynjum hætta
ben-Gríði fram ríða;
fyldi heldr á höldi
hrafn vand-Gjálpar nafna.
Veittið Hrapp sem hétuð
hríð á ísi viðum.
Reið söng róstu hljóðum
Rimmugýgr til dimmum.

Snúa þeir þá upp at þeim. Þeir Grímr ok Helgi sjá, hvar Hrappr var, ok sneru þegar at honum. Hrappr höggr þegar til Gríms með öxinni. Helgi sér þetta ok höggr á höndina Hrappi, svá at af tók, enn niðr fell öxin. Hrappr mælti: „Hér hefir þú mikit nauðsynjaverk unnit; því at þessi hönd hefir mörgum manni mein gert ok bana“. „Hér skal nú endir á verða“, segir Grímr ok leggr spjóti í gegnum hann. Fell Hrappr þá dauðr niðr. Tjörvi snýr í móti Kára ok skýtr at honum spjóti. Kári hljóp í loft upp, ok flaug spjótit fyrir neðan fætr honum. Kári hleypr at honum ok höggr til hans með sverðinu, ok kom á brjóstit ok gekk þegar á hol, ok hafði hann þegar bana. Skarpheðinn grípr þá báða senn Gunnarr Lambason ok Grana Gunnarsson ok mælti: „Tekit hefi ek hér hvelpa tvá — eða hvat skal við gera?“ „Kost átt þú“, segir Helgi, „at drepa hvárntveggja, ef þú vill þá feiga“. „Eigi nenni ek“, segir Skarpheðinn, „at hafa þat saman at veita Högna,

enn drepa bróður hans". „Koma mun þar einu hverju sinni", segir Helgi, „at þú myndir vilja hafa drepit þá; því at þeir munu þér aldri trúir verða — ok engir þeira, er nú eru hér". „Ekki mun ek hræðast þá", segir Skarpheðinn. Síðan gáfu þeir grið Grana Gunnarssyni ok Gunnari Lambasyni ok Lamba Sigurðarsyni ok Loðni. Eftir þat sneru þeir heim, ok spurði Njáll tíðenda. Þeir segja honum öll sem gerst. Njáll mælti: „Mikil eru tíðendi þessi; ok er þat líkara, at hér leiði af dauða eins sonar míns, ef eigi verðr meira at". Gunnarr Lambason flutti lík Þráins með sér til Grjótár, ok var hann þar heygðr.

93. Ketill í Mörk átti Þorgerði dóttur Njáls, sem fyrr var sagt, enn var bróðir Þráins, ok þóttist hann við vant um kominn. Hann reið til Njáls ok spurði, hvárt hann vildi nakkvat bæta víg Þráins. Njáll svaraði: „Bæta vil ek svá at vel sé. Ok vil ek, at þú leitir þess við bræðr þína, þá er bauga eigu at taka, at þeir taki sættum". Ketill kvaðst þat vildu gera gjarna. Var þat þá ráð þeira, at Ketill skyldi fara ok finna þá alla, er gjöld áttu at taka, ok koma á griðum. Síðan reið Ketill heim. Ketill ferr nú at finna bræðr sína ok stefndi þeim öllum saman til Hlíðarenda. Tekr hann þar umbræðu við þá, ok var Högni með honum í allri umbræðu. Ok kom svá, at menn váru

til gerðar teknir ok lagðr til fundr, ok váru ger manngjöld fyrir víg Þráins, ok tóku þeir allir við bótum sem lög stóðu til. Síðan var mælt fyrir trygðum ok búit um sem trúlegast. Greiddi Njáll féit alt af hendi vel ok skörulega. Var þá kyrt um stund. Einu hverju sinni reið Njáll upp í Mörk, ok töluðu þeir Ketill dag allan. Reið Njáll heim um kveldit — ok vissi engi maðr, hvat í ráðagerð hafði verit. Litlu síðar fór Ketill til Grjótár. Hann mælti til Þorgerðar: „Lengi hefi ek mikit unt Þráni bróður mínum — mun ek enn þat sýna; því at ek vil bjóða til fóstrs Höskuldi syni Þráins". „Gera skal þér kost á þessu", segir hon, „þú skalt veita þessum sveini alt þat er þú mátt þá er hann er roskinn ok hefna hans, ef hann er með vápnum veginn, ok leggja fé til kvánarmundar honum. Ok skalt þú þetta alt sverja". Hann játtaði þessu öllu. Ferr Höskuldr nú heim með Katli ok er með honum nakkvara hríð.

94. Einu hverju sinni ríðr Njáll upp í Mörk, ok var tekit við honum vel, ok var hann þar um nóttina. Um kveldit gekk sveinninn at honum, ok kallaði Njáll á hann. Gekk hann þegar til hans. Njáll hafði fingrgull á hendi ok sýndi sveininum. Sveinninn tók við gullinu ok hugði at ok dró á fingr sér. Njáll mælti: „Vill þú þiggja gullit at gjöf?" „Þiggja vil ek víst", segir sveinninn. „Veizt þú", segir

Njáll, „hvat föður þínum varð at bana?“ Sveinnnn svarar: „Veit ek, at Skarpheðinn vá hann; ok þurfu vit ekki á þat at minnast, er sæzt hefir á verit ok fullar bætr hafa fyrir komit“. „Betr er svarat“, segir Njáll, „enn ek spurða, ok munt þú verða góðr maðr“. „Góðar þykki mér spásögur þínar“, segir Höskuldr, „því at ek veit, at þú ert forspár ok ólyginn“. Njáll mælti: „Nú vil ek bjóða þér fóstr, ef þú vill þiggja“. Höskuldr kvaðst þiggja vilja bæði þann góða ok annan þann sem hann gerði honum. Urðu þær málalyktir, at Höskuldr fór heim með Njáli til fóstrs. Hann lét sveininum ekki í mein ok unni mikit. Synir Njáls leiddu hann eftir sér ok gerðu honum alt til sóma. Nú líðr þar til er Höskuldr er frumvaxti. Hann var bæði mikill ok sterkr, manna fríðastr sýnum ok hærðr vel, manna bezt vígr, blíðr í máli, örlátr, stiltr vel, orðgóðr til allra manna ok vinsæll. Njálssonu ok Höskuld skildu hvártki á orð né verk.

95. Maðr er nemndr Flosi. Hann var sonr Þórðar freysgoða, Özurar sonar, Ásbjarnar sonar, Heyangrs-Bjarnar sonar, Helga sonar, Bjarnar sonar bunu, Gríms sonar hersis ór Sogni. Móðir Flosa var Ingunn dóttir Þóris af Espihóli, Hámundar sonar heljarskinns, Hjörs sonar, Hálfs sonar konungs, er réð fyrir Hálfsrekkum, Hjörleifs sonar hins kvensama. Móðir Þóris

var Ingunn dóttir Helga hins magra, er nam Eyjafjörð. Flosi átti Steinvöru dóttur Halls af síðu. Hon var laungetin, ok hét Sólvör móðir hennar, dóttir Herjólfs hins hvíta. Flosi bjó at Svínafelli ok var höfðingi mikill. Hann var mikill vexti ok styrkr, manna kappsamastr. Bróðir hans hét Starkaðr. Hann var eigi sammæðra við Flosa. Móðir Starkaðar var Þraslaug dóttir Þorsteins titlings Geirleifssonar. Enn móðir Þraslaugar var Unnr dóttir Eyvindar karfa landnámamanns ok systir Móðólfs hins spaka. Bræðr Flosa váru þeir Þorgeirr ok Steinn, Kolbeinn ok Egill. Hildigunnr hét dóttir Starkaðar bróður Flosa. Hon var skörungr mikill ok kvenna fríðust sýnum. Hon var svá hög, at fáar konur váru jafnhagar. Hon var allra kvenna grimmust ok skaphörðust, enn drengr góðr þar sem vel skyldi vera.

**96.** Hallr hét maðr, er kallaðr var Síðu-Hallr. Hann var Þorsteins son, Böðvars sonar. Móðir Halls hét Þórdís ok var Özurar dóttir, Hróðlaugs sonar, Rögnvalds sonar jarls af Mæri, Eysteins sonar glumru. Hallr átti Jóreiði Þiðranda dóttur hins spaka, Ketils sonar þryms, Þóris sonar þiðranda ór Veradal. Bróðir Jóreiðar var Ketill þrymr í Njarðvík ok Þorvaldr faðir Helga Droplaugarsonar. Hallkatla var systir Jóreiðar móðir Þorkels Geitissonar ok þeira Þiðranda. Þorsteinn hét bróðir Halls ok

var kallaðr breiðmagi. Son hans var Kolr, er Kári vegr í Bretlandi. Synir Halls af Síðu váru þeir Þorsteinn ok Egill, Þorvaldr ok Ljótr ok Þiðrandi sá er dísir drápu.

Þórir hét maðr ok var kallaðr Holta-Þórir. Hans synir váru þeir Þorgeirr skorargeirr ok Þorleifr krákr ok Þorgrímr hinn mikli.

97. Nú er þar til máls at taka, at Njáll talaði við Höskuld fóstra sinn: „Ráðs vilda ek þér leita, fóstri, ok kvánfangs". Höskuldi kveðst þat vel at skapi ok bað hann fyrir sjá — „eða hvar vill þú helzt á leita?" Njáll svarar: „Kona heitir Hildigunnr ok er Starkaðar dóttir, Þórðar sonar freysgoða. Þann veit ek kost beztan". Höskuldr mælti: „Sjá þú einn fyrir, fóstri minn. Þat skal mitt ráð, sem þú vill vera láta". „Hér munu vit á leita", segir Njáll. Litlu síðar kvaddi Njáll menn til ferðar með sér. Fóru þeir Sigfússynir ok synir Njáls allir ok Kári Sölmundarson. Þeir ríða austr til Svínafells. Fá þeir þar góðar viðtökur. Um daginn eftir ganga þeir Njáll ok Flosi á tal. Þar koma niðr ræður Njáls, at hann segir svá: „Þat er erendi mitt hingat, at vér förum bónorðsför ok mælum til mægða við þik, Flosi, enn til eiginorðs við Hildigunni bróðurdóttur þína". „Fyrir hvers hönd?" segir Flosi. „Fyrir hönd Höskulds Þráinssonar fóstra míns", segir Njáll. „Vel er slíkt stofnat", segir Flosi, „enn

þó hafið þér mikit í hættu hvárir við aðra — eða hvat segir þú frá Höskuldi?“ „Gott má ek frá honum segja“, segir Njáll, „ok skal ek svá fé til leggja, at yðr þykki sæmilega, ef þér vilið þetta mál at álitum gera“. „Kalla munu vér á hana“, segir Flosi, „ok vita hversu henni lízt maðrinn“. Var þá sent eftir henni, ok kom hon þangat. Flosi segir henni bónorðit. Hon kvaðst vera kona skapstór — „ok veit ek eigi hversu mér er hent við þat, er þar eru svá menn fyrir — enn þat þó eigi síðr, at sjá maðr hefir ekki mannaforráð; ok hefir þú þat mælt, at þú myndir eigi gifta mik goðorðslausum manni“. „Þat er ærit eitt til“, segir Flosi, „ef þú vill eigi giftast Höskuldi, at þá mun ek engan kost á gera“. „Þat mæli ek eigi“, segir hon, „at ek vilja eigi giftast Höskuldi, ef þeir fá honum mannaforráð. Enn ellegar mun ek engan kost á gera“. Njáll mælti: Þá vil ek bíða láta mín um þetta mál þrjá vetr“. Flosi svaraði, at svá skyldi vera. „Þann hlut vilda ek til skilja“, segir Hildigunnr, „ef þessi ráð tækist, at vit værim austr hér“. Njáll kvaðst þat vilja skilja undir Höskuld. Enn Höskuldr kvaðst mörgum vel trúa, enn engum betr enn fóstra sínum. Nú ríða þeir austan. Njáll leitaði Höskuldi um mannaforráð, ok vildi engi selja sitt goðorð. Líðr nú sumarit til alþingis. Þetta sumar váru þingdeildir miklar. Gerði

þá margr sem vant var at fara til fundar við Njál. Enn hann lagði þat til mála manna, sem ekki þótti líklegt, at eyddist sóknir; ok varð af því þræta mikil, er málin máttu eigi lúkast— ok riðu menn heim af þingi ósáttir. Líðr nú þar til er kemr annat þing. Njáll reið til þings. Ok er fyrst kyrt þingit alt þar til, er Njáll talar, at mönnum væri mál at lýsa sökum sínum. Margir mæltu, at til lítils þætti þat koma, ef engi kvæmi sínum málum fram, þó at til alþingis væri stefnt — „ok vilju vér heldr“, segja þeir, „heimta várt mál með oddi ok eggju“. „Svá má eigi vera“, segir Njáll, „ok hlýðir þat hvergi, at hafa eigi lög í landi. Enn þó hafið þér mikit til yðvars máls um þat; ok kemr þat til vár, er lögin kunnum ok þeim skulum stýra. Þykki mér þat ráð, at vér kallimst saman allir höfðingjar ok talim um“. Þeir gengu þá til lögréttu. Njáll mælti: „Þik kveð ek at þessu, Skafti Þóroddsson, ok aðra höfðingja, at mér þykkir sem málum várum sé komit í ónýtt efni, ef vér skulum sækja mál í fjórðungsdómum, ok verði svá vafit, at eigi megi lúkast né fram ganga. Þykki mér þat ráðlegast, at vér ættim hinn fimta dóm ok sæktum þar þau mál, er eigi megu lúkast í fjórðungsdómi“. „Hversu skalt þú“, sagði Skafti, „nemna fimtardóminn — er fyrir forn goðorð er nemndr fjórðungsdómr — fernar tylftir, í fjórðungi hverjum?“ „Sjá mun ek ráð til þess“,

segir Njáll, „at taka upp ný goðorð — þeir er bezt eru til fallnir ór fjórðungi hverjum; ok segist þeir í þing með þeim, er þat vilja“. Þenna kost vilju vér“, segir Skafti, „eða hversu vandar sóknir skulu hér vera?“ „Þau mál skulu hér í koma“, segir Njáll, „of alla þingsafglöpun — ef menn bera ljúgvitni eða ljúgkviðu. Hér skulu ok í koma véfangsmál öll þau er menn véfengja í fjórðungsdómi, ok skal þeim stefna til fimtardóms. Svá ok, ef menn bjóða fé eða taka fé til liðs sér. Í þessum dómi skulu vera allir hinir styrkjustu eiðar ok fylgja tveir menn hverjum eiði, er þat skulu leggja undir þegnskap sinn, er hinir sverja. Svá skal ok, ef annarr ferr með rétt mál, enn annarr með rangt — þá skal eftir þeim dæma, er rétt fara at sókn. Hér skal ok sækja hvert mál sem í fjórðungsdómi — utan þat, er nemndar eru fernar tylftir í fimtardóm, þá skal sækjandi nemna sex menn ór dómi, enn verjandi aðra sex. Enn ef hann vill eigi ór nemna, þá skal sækjandi nemna þá ór sem hina. Enn ef sækjandi nemnir eigi ór, þá er ónýtt málit; því at þrennar tylftir skulu um dæma. Vér skulum ok hafa þá lögréttuskipun, at þeir, er sitja á miðjum pöllum, skulu réttir at ráða fyrir lofum ok lögum; ok skal þá velja til þess, er vitrastir eru ok bezt at sér. Þar skal ok vera fimtardómr. Enn ef þeir verða eigi á sáttir, er í

lögréttu sitja, hvat þeir vilja lofa eða í lög leiða, þá skulu þeir ryðja lögréttu til, ok skal ráða afl með þeim. Enn ef sá er nakkvarr fyrir utan lögréttu, at eigi nái inn at ganga eða þykkist borinn vera máli, þá skal hann verja lýriti svá at heyri í lögréttu, ok hefir hann þá ónýtt fyrir þeim öll lof þeira ok alt þat er þeir mæltu til lögskila ok varði lýriti". Eftir þat leiddi Skafti Þóroddsson í lög fimtardóm ok alt þetta, er nú var talit. Eftir þat gengu menn til Lögbergs. Tóku menn þá upp ný goðorð. Í norðlendingafjórðungi váru þessi ný goðorð: Melmannagoðorð í Miðfirði ok Laufæsingagoðorð í Eyjafirði. Þá kvaddi Njáll sér hljóðs ok mælti: „Þat er mörgum mönnum kunnigt, hversu farit hefir með oss sonum mínum ok Grjótármönnum — at þeir drápu Þráin Sigfússon, ok var sæzt á málit, ok ek tók við Höskuldi syni Þráins. Hefi ek nú ráðit honum kvánfang, ef hann fær goðorð nakkvat. Enn engi vill selja sitt goðorð. Vil ek nú biðja yðr, at þér leyfið, at ek taka upp nýtt goðorð á Hvítanesi til handa Höskuldi". Hann fekk þat lof af öllum. Tekr Njáll nú upp goðorðit til handa Höskuldi, ok var hann síðan kallaðr Höskuldr Hvítanessgoði. Eftir þetta ríða menn heim af þingi. Njáll dvaldist skamma stund heima, áðr hann reið austr til Svínafells — ok synir hans ok Höskuldr — ok vekr bónorðit við Flosa.

Enn hann kveðst efna mundu öll mál við þá. Var þá Hildigunnr föstnuð Höskuldi ok kveðit á brúðhlaupsstefnu; ok lýkr svá með þeim. Ríða þeir þá heim. Enn í annat sinn riðu þeir til brúðhlaups. Leysti Flosi út alt fé Hildigunnar eftir boðit ok greiddi vel af hendi. Fóru þau til Bergþórshváls ok váru þar þau missari, ok fór alt vel með þeim Hildigunni ok Bergþóru. Um várit eftir keypti Njáll land í Vörsabæ ok fær þat Höskuldi, ok ferr hann þangat bygðum sínum. Njáll réð honum hjón öll. Ok svá var dátt með þeim öllum saman, at engum þótti ráð ráðit, nema þeir réði allir um. Bjó Höskuldr í Vörsabæ lengi svá at hvárir studdu annarra sæmd, ok váru synir Njáls í ferðum með Höskuldi. Svá var ákaft um vináttu þeira, at hvárir buðu öðrum heim hvert haust ok gáfu stórgjafar. Ferr svá lengi fram.

98. Maðr hét Lýtingr. Hann bjó á Sámsstöðum. Hann átti þá konu, er Steinvör hét. Hon var Sigfússdóttir, systir Þráins. Lýtingr var mikill maðr vexti ok styrkr ok auðigr at fé, illr viðreignar. Þat var einu hverju sinni, at Lýtingr hafði boð inni á Sámsstöðum. Hann hafði þangat boðit Höskuldi Hvítanessgoða ok Sigfússsonum. Þeir kvámu þar allir. Þar var ok Grani Gunnarsson ok Gunnarr Lambason ok Lambi Sigurðarson. Höskuldr Njálsson átti bú í *(Bjarnar)*holti ok móðir hans, ok reið hann

jafnan til bús síns frá Bergþórshváli, ok lá leið hans um garð á Sámsstöðum. Höskuldr átti son er Ámundi hét. Hann hafði blindr verit borinn. Hann var þó mikill vexti ok öflugr. Lýtingr átti bræðr tvá. Hét annarr Hallsteinn, enn annarr Hallgrímr. Þeir váru hinir mestu óeirðarmenn — ok váru þeir jafnan með Lýtingi bróður sínum; því at aðrir menn kvámu ekki skapi við þá. Lýtingr var úti löngum um daginn, enn stundum gekk hann inn. Hann gekk til sætis síns. Þá kom kona inn, er úti hafði verit. Hon mælti: „Of fjarri váruð þér úti at sjá, er oflátinn reið um garð“. „Hverr ofláti var sá“, segir Lýtingr, „er þú segir frá?“ „Höskuldr Njálsson reið hér um garð“, segir hon. Lýtingr mælti: „Oft ríðr hann hér um garð ok er mér eigi skapraunarlaust; ok bjóðumst ek til þess, Höskuldr mágr, at fara með þér, ef þú vill hefna föður þíns ok drepa Höskuld Njálsson“. „Þat vil ek eigi“, segir Höskuldr, „ok launa ek þá verr enn vera skyldi Njáli fóstra mínum; ok þrífst þú aldri fyrir heimboð“ — ok spratt upp undan borðinu ok lét taka hesta sína ok reið heim. Lýtingr mælti þá til Grana Gunnarssonar: „Þú vart hjá, er Þráinn var veginn — ok mun þér þat minnisamt — ok svá þú, Gunnarr Lambason, ok þú, Lambi Sigurðarson. Vil ek nú, at vér ráðim at Höskuldi Njálssyni ok drepim hann í

kveld, er hann ríðr heim". „Nei", segir Grani, „ekki mun ek fara at Njálssonum ok rjúfa sætt þá er góðir menn gerðu". Slíkum orðum mælti hverr þeira ok svá Sigfússsynir — ok tóku þat ráð allir at ríða í braut. Þá mælti Lýtingr, er þeir váru í brautu: „Þat vitu allir menn, at ek hefi við engum bótum tekit eftir Þráin mág minn; skal ek ok aldri una því, at engi komi mannhefnd eftir hann". Síðan kvaddi hann til ferðar með sér bræðr sína tvá ok húskarla þrjá. Þeir fóru á leið fyrir Höskuld ok sátu fyrir honum norðr frá garði í gróf nakkvarri, ok biðu þar til þess er var miðr aftann. Þá reið Höskuldr at þeim. Þeir spretta þá upp allir með vápnum ok sækja at honum. Höskuldr varðist svá vel, at þeir fá lengi eigi sóttan hann. Enn þar kom um síðir, at hann særði Lýting á hendi, enn drap heimamenn hans tvá ok fell síðan. Þeir særðu Höskuld sextán sárum, enn eigi hjoggu þeir höfuð af honum. Þeir fóru í skógana fyrir austan *Þverá* ok fálu sík þar. Þetta kveld hit sama hafði smalamaðr Hróðnýjar fundit Höskuld dauðan ok fór heim ok sagði Hróðnýju víg sonar síns. Hon mælti: „Ekki mun hann dauðr vera — eða var af honum höfuðit?" „Eigi var þat", segir hann. „Vita mun ek, ef ek sé", segir hon, „ok tak þú hest minn ok akfæri". Hann gerði svá ok bjó um með öllu. Ok síðan fóru þau þangat

sem Höskuldr lá. Hon leit á sárin ok mælti: „Svá er, sem mik varði, at hann myndi ekki dauðr með öllu; ok mun Njáll græða stærri sár". Síðan tóku þau ok lögðu hann í vagarnar ok óku til Bergþórshváls ok báru þar inn í sauðahús ok láta hann sitja upp við vegginn. Síðan gengu þau heim bæði ok drápu á dyrr; ok gekk húskarl einn til dura. Hon snarar þegar inn hjá honum ok ferr þar til er hon kemr at hvílu Njáls. Hon spurði, hvárt Njáll vekti. Hann kveðst sofit hafa þar til — „enn nú em ek vaknaðr — eða hví ert þú hér komin svá snimma?" Hróðný mælti: „Statt þú upp ór binginum frá elju minni ok gakk út með mér ok svá hon ok synir þínir". Þau stóðu upp ok gengu út. Skarpheðinn mælti: „Töku vér vápn vár ok höfu með oss". Njáll lagði ekki til þess, ok hljópu þeir inn ok gengu út vápnaðir. Ferr Hróðný fyrir til þess er þau koma at sauðahúsinu. Hon gengr inn ok bað þau ganga eftir. Hon vatt upp skriðljósi ok mælti: „Hér er nú, Njáll, Höskuldr son þinn, ok hefir fengit á sér sár mörg, ok mun hann nú þurfa lækningar". Njáll mælti: „Dauðamörk sé ek á honum, enn engi lífsmörk — eða hví hefir þú eigi veitt honum nábjargir, er opnar eru nasarnar?" „Þat ætlaða ek Skarpheðni", segir hon. Skarpheðinn gekk at og veitti honum nábjargir. Skarpheðinn mælti þá við föður

sinn: „Hverr segir þú at hann hafi vegit?“ Njáll svarar: „Lýtingr á Sámsstöðum mun hafa vegit hann ok bræðr hans“. Hróðný mælti: „Þér fel ek á hendi, Skarpheðinn, at hefna bróður þíns. Ok vænti ek, at þér muni vel fara, þó at hann sé eigi skilgetinn, ok þú munir mest eftir ganga“. Bergþóra mælti: „Undarlega er yðr farit, er þér vegið víg þau er yðr rekr lítið til enn meltið slíkt ok sjóðið fyrir yðr svá at ekki verðr af; ok mun hér koma skjótt Höskuldr Hvítanessgoði ok biðja yðr sætta, ok munuð þér veita honum þat — ok er nú til at ráða ef þér vilið“. Skarpheðinn mælti: „Eggjar móðir vár oss nú lögeggjan“. Síðan hljópu þeir út allir. Hróðný gekk heim með Njáli ok var þar um nóttina.

99. Nú er at segja frá þeim Skarpheðni, at þeir stefna upp til *Þverár*. Skarpheðinn mælti: „Stöndu vér nú ok hlýðum til“. Þeir gerðu svá. Síðan mælti hann: „Föru vér nú hljótt; því at ek heyri mannamál upp með ánni. Eða hvárt vilið þér heldr eiga við Lýting einn eða við bræðr hans báða?“ Þeir kváðust heldr vilja eiga við Lýting einn. „Í honum er þó veiðrin meiri“, segir Skarpheðinn, „ok þykki mér illa ef undan berr; enn ek treysti mér bezt um, at eigi dragi undan“. „Til skulu vit svá stefna“, segir Helgi, „ef vit komumst í færi, at eigi reki undan“. Síðan gengu þeir

þangat sem Skarpheðinn hafði heyrt mannamálit ok sjá, hvar þeir Lýtingr eru við læk einn. Skarpheðinn hleypr þegar yfir lækinn ok í melbakkann öðrum megin. Þar stóð Hallgrímr á uppi ok þeir bræðr. Skarpheðinn höggr á lærit Hallgrími, svá at þegar tók undan fótinn, enn þrífr Hallkel annarri hendi. Lýtingr lagði til Skarpheðins. Helgi kom þá at ok brá við skildinum, ok kom þar í lagit. Lýtingr tók upp stein ok laust Skarpheðin, ok varð Hallkell lauss. Hallkell hleypr þá upp á melbakkann ok kemst eigi á upp annan veg enn hann skýtr niðr knjánum. Skarpheðinn slæmir til hans öxinni Rimmugýgi ok höggr í sundr í honum hrygginn. Lýtingr snýr nú undan enn þeir Grímr ok Helgi eftir, ok kemr sínu sári á hann hvárr þeira. Lýtingr komst út á ána undan þeim ok svá til hrossa ok hleypir til þess er hann kemr í Vörsabæ. Höskuldr var heima. Lýtingr finnr hann þegar ok segir honum verkin. „Slíks var þér ván“, segir Höskuldr. „Þú fórt rasandi mjök. Mun hér sannast þat sem mælt er, at skamma stund verðr hönd höggvi fegin. Þykki mér sem þér þykki nú ísjávert, hvárt þú munt fá haldit þik fyrir Njálssonum“. „Svá er víst“, segir Lýtingr, „at ek kvámumst nauðulega undan; enn þó vilda ek nú, at þú kvæmir mér í sætt við Njál ok sonu hans ok mætta ek halda búi mínu“. „Svá

færi utan, þá er hann var orðinn gamall, at sækja sér skálavið. Ok var hann í Noregi þann vetr. Enn um sumarit varð hann síðbúinn. Menn ræddu um at vánt væri skip hans. Flosi sagði vera ærit gott gömlum ok feigum ok sté á skip ok lét í haf — ok hefir til þess skips aldri spurzt síðan. Þessi váru börn þeira Kára Sölmundarsonar ok Helgu Njálsdóttur: Þorgerðr ok Ragneiðr ok Valgerðr ok Þórðr, er inni brann. Enn börn þeira Hildigunnar ok Kára váru þeir Starkaðr ok Þórðr ok Flosi. Son Flosa var Kolbeinn, er ágætastr maðr hefir verit einn hverr í þeirri ætt. Ok lúku vér þar brennu-Njáls sögu.

---

# Vísnaskýringar.

1 (**Unnr Marðardóttir**). Víst segi ek gott frá þessum geysta[1] geirhvessanda[2], þat er silfra sundrhreyti[3] er fundit sjalfráðlegt. Ek verð at segja mart eða þegja, því at eggþings almr[4] er orðinn fyr gerningum. Satt er at ek sék[5] við spotti.

1. *geystr*, framgjarn, ákafr (í orrustu). — 2. *geirhvessandi*, mannkenning. — 3. *silfra sundrhreytir*, mannkenning. — 4. *almr*, viðartegund (d. ælm, lat. ulmus); *eggþingsalmr* = bardagamaðr, mannkenning. — 5. *sék* = sé ek; *ek sé við*, varast.

Víst er gott að segja af þessum framgjarna hreystimanni, að því er honum er sjálfrátt. Ég verð annaðhvort að segja (of) margt eða þegja. Satt að segja vil ég varast háð manna.

2 (**Unnr Marðardóttir**). Hrútr hefir víst þrútinn líkama, hringa hristir[1], þá er lundýgr[2] linnbeðs njótr[3] leitar drýgja munuð. Leita ek þá, aldraðr skjaldar boði[4], finna yndi okkars vanda með undlinna ýti[5].

1. *hringa hristir*, mannkenning, enn hvert *hringr* er hér = sverð er óvíst. — 2. *lundýgr* = ólmr, áfjáðr. — 3. *linnbeðr* = ormsbeðr, gull; linnbeðs *njótr*, mannkenning. Í hdr. stendr e i t r s, þar sem hér er sett n j ó t r, og er það líkleg tilgáta. — 4. *skjaldarboði* = sá er býðr,

gefr skjöld, mannkenning. — 5. *linnr*, ormr; *undlinnr* = sárormr, sverð; *undlinna ýtir*, mannkenning.

Hrútr er satt að segja (of) þrýstinn, þegar hann leitar hvílubragða við mig. Leita ek þó við að hafa yndi af samvist við hann (enn það er til einkis).

3 (**Unnr Marðardóttir**). Þó veit ek hitt, spannar jökuls meiðr[1], at handfúrs hreytir[2] er jafnt sem aðrir nýtir boga ýtendr[3]. Ek vilda seggja[4] skilit við þenna öldu jókennanda[5]. Undleggs rjóðr[6], lít þú orð ok íðir[7].

1. *spannar*(handar)*jökull*, silfr; *meiðr*, viðr; spannar handar jökuls meiðr = silfrviðr, mannkenning. — 2. *fúr*, hvk., eldr; *handfúr* = handareldr, gull; gull-*hreytir*, mannkenning. — 3. *boga ýtandi*, mannkenning. — 4. *seggja* = segja. Líklegra er að hér eigi að rita: „undlegs — segja“. — 5. mannkenning. — 6. *undleggr*, sverð; sverð-*rjóðr*, mannkenning. — 7. *íð*, kvk., (sbr. iðn) verk.

Þó veit ég, hins vegar, að hann er í eðli sínu sem aðrir menn. Ek vil segja skilið við hann. Lít þú nú á orð og verk.

4 (**Gunnarr Hámundarson**). Eftir eru sízt menn á Rangárvöllum. Öll þjóð talar slíkt at sönnu í hljóði; þat er oft heyrt. Ek frá Mörð gígju gerðu[1] margkunnar gunnhríðar[2]. Engr seima sløngvir[3] var slíkr at spekt ok ríki.

1. *gerðu*, nafnh. þát. (infinitivus præteriti) af gera. — 2. *gunnhríð*, orrusta. — 3. *seimr*, gull; gull-*sløngvir*, mannkenning.

Á Rangárvöllum eru nú ekki eftir menn (sem vert er um að tala). Það er sannleikr, sem enginn dregr dulur á og oft má heyra. Eg hefi heyrt, at Mörðr gígja var

alkunnr að bardögum. Enginn maðr var líki hans að speki ok höfðingsskap.

5 (Gunnarr Hámundarson). Ek vænti at ek hafa heyrt, at hringsalmr[1] rænti þik bjartri jarðarþráðs undirgerðar Hristi[2] með ráðum. Skjaldar haldendr[3] réðu hodda hlœði[4] at hann berðisk eigi við þik. Áðr rauð seima sneiðir[5] sverð.

1. *hringsalmr*, mannkenning. — 2. *jarðarþráðr*, ormr; *undirgerð*, dýna; ormsdýna, gull; *Hrist*, valkyrja; gullsvalkyrja, kvenkenning. — 3. *skjaldarhaldendr*, menn. — 4. *hodd*, kvk., fé; fé-*hlœðir*, sá er hleðr, hrúgar saman fé, mannkenning. — 5. *seima sneiðir*, mannkenning.

Síðasta vísuorðið er of langt, en orðið hann virðist hér mega fella burt.

Eg ætla, að eg hafi heyrt, að Mörðr rænti þik konunni með ráðum. Menn réðu honum að berjast eigi við þig. Á fyrri árum var hann bardagamaðr.

6 (Gunnarr Hámundarson). Ek skal at hváru[1] skora þér á holm við mik í dag Hrútr — ek hef góðan óð, hjaldruðr hjalma ok skjalda[2] — nema vilir nú, auðs ölr[3], greiða út mund refils Grundar[4]. Þeir Heðins gáttar hirðendr[5], er heyra, sé váttar.

1. *at hváru*, að öðrum kosti. — 2. *hjaldr*, gnýr; *ruðr* = runnr, viðr; gnýviðr *hjalma ok skjalda*, mannkenning. — 3. *ölr*, viðarheiti (lat. alnus); *auðs*-viðr, mannkenning. — 4. *refill*, veggtjald; veggtjalds-*Grund*, kvenkenning. — 5. *gátt* (hér) = hurð; *Heðinn*, kappi sá er barðist við Högna; Heðins hurð, skjöldr; skjaldar-*hirðendr*, menn.

Eg skal að öðrum kosti skora þér á hólm við mig í dag, Hrútr — eg hef upp vísu — nema þú viljir nú

greiða út mund konunnar. Þeir menn sem á heyra sé vottar.

7 (**Gunnarr Hámundarson**). Hjörþings œskimeiðar[1] munu njóta hœgs auðs óttlaust fyr því at ljúgum hvergi til penninga. — Þá ferr fljóði[2] verr enn oss, hraustr ok errinn hjalma funa almr[3]. Enn vér rjóðum varrar vitnis[4].

1. *hjörþings œskimeiðr*, mannkenning. — 2. *fljóð*, hvk., ókent kvenheiti. — 3. *hjalma funi*, hjalma eldr = hjalma eyðir, sverð. — 4. *vitnir*, úlfr.

Fyrri hluti vísunnar virðist vera svar til Höskulds, enn síðari hlutinn svar til Hrúts.

Menn munu mega njóta rólega fjárins fyrir því, að vér heimtum ekki meira fé enn ber. — Þá fer henni ver enn oss. Enn vér erum bardagamenn.

8 (**Gunnarr Hámundarson**). Þú hefr verit betri átgjörnum erni, enn þér sjalfum, gjalfrdags greiðir[1]. Hrafn etr dauða gumna[2]. Margr muninn[3] gengr hér œstr í morgin drekka vargs bekki[4]. Enn þik tekr þysta, fetilstinga þingalmr[5].

1. *gjalfr*, sjór; dagr = birta, ljós; sjávarljós = gull. 2. *gumnar*, menn ('ókent heiti'). — 3. *muninn*, hrafn. — 4. *bekkr*, lækr; *vargs bekkr*, blóð. — 5. *fetilstingr*, sverð.

9 (**Gunnarr Hámundarson**). Ek skal þegar, Hildar skóða hlœðir[1], fanga geir œst ok fella geystan hjalmangrs gnýsvellanda[2]. Eitrs ölungrundar eyðir[3] skal ok um síðir láta líf ört Sigars drífu[4], Endils eykríðandi[5].

1. *Hildr*, valkyrja; *skóð* (sbr. skaði, skœðr), tjón; merkir stundum verkfæri: benja skóð, unda skóð (St. Ól. Kvæði I, 197); valkyrju *skóð* er því vopn; *hlœðir*, sá sem hleðr (sbr. 5. vísu); *Hildar skóða hlœðir* er því mannkenning. — 2. *hjalmangr*, sverð; *svellandi*, hlut. orð af svella

= bólgna, blása upp; *hjálmangrs-gný-svellandi*, bardagamaðr. — 3. *ölunn*, fiskheiti; *eitrs ölunn*, ormr; orms *grund*, gull; gulls *eyðir*, mannkenning. — 4. *Sigarr*, herkonungr, sá er hengdi Hagbarð; *Sigars-drífa* orrusta; *líf ört Sigars drífu*, líf röskt til bardaga. — 5. *Endill*, sækonungr; *Endils eykr*, skip; *Endils eykríðandi*, farmaðr.

Eg skal þegar í snatri taka sverð mitt og fella þenna ólma bardagamann. Hann skal nú um síðir láta sitt herskáa líf.

10 (**Gunnarr Hámundarson**). Ek hefi feldan í öðrum löndum þann öldu eisu eyði[1], er kunni at reisa hildi[2]. Ek frá at Hallgrímr hefði leyfðan[3] hjalmavönd[4]. Allir dyggvir skatnar[5] viti, hvé atgeirr of kom ulfa fylli[6]. Hann skal mér hendi fylginn til enda lífs, því at kunnum herskap.

1. *öldu-eisu eyðir* = gullseyðir, mannkenning. — 2. hildr (hér) = orrusta. — 3. *leyfðr* (af leyfa = lofa) lofaðr, ágætr. — 4. *hjalmavöndr*, sverð. — 5. *skatnar*, menn. — 6. *ulfa fyllir*, sá sem seðr úlfa, bardagamaðr.

Ek hefi feldan erlendis þann mann, er kunni að hefja bardaga. Eg heyrði sagt, að Hallgrímr hefði ágætt sverð. Allir góðir menn viti, hvaðan mér kom atgeir þessi. Hann skal vera mér við hönd meðan eg lifi.

11 (**Skarpheðinn**). Ek vil kalla svinnan[1] ormaleiðar eyði[2] alldálega[3] hraðfeigan. Hug minn hlœgir við þat. Vígs gœðöndum[4] eru meiri vánir vár brœðra, enn á fóstra mínum, at munim vinna varg vín[5].

1. *svinnr*, vitr (sbr. 'svinnr er sá er sig kann', málsh.). — 2. *ormaleið*, gull. — 3. *alldálega*, allaumlega (á d. daalig). — 4. *vígsgœðandi* = vígsaukandi, bardagamaðr. — 5. *vín* (hér) = drykkr.

Eg vil segja, að maðrinn hafi verið allmjög hraðfeigr.

Meiri vánir eru til, að vér brœðr vinnum víg, enn fóstri minn.

12 (Skarpheðinn). Eigi þótti þeim þróttardjörfum áfestöndum Ægis hesta[1] þurfa lítils við hlíta. Nær skulum hefja handa, lögðis banda hrœrir[2], ef nú erum kyrrir? Fyrr ruðu frægir fyrðar sverð.

1. *Ægishestr*, skip. — 2. *lögðir*, sverð; *brandr*, sverðblað; sverðblaða-*hrœrir*, mannkenning.

K. G. heldr að 4. vo. eigi að vera: þeim litlu við hlíta.

Eigi þótti köppum þessum lítils við þurfa. Nær skulum hefja handa, faðir minn, ef vér erum nú kyrrir. Fyrr höfum vér roðið sverð.

13 (Sigmundr). Hvat skulu, haukasetra Hildr[1], taðskeglingar, trauðir tryggra ráða, negla mundriða í skildi? Því at sviphnuggnir seggir megu eigi forðask háðuleg orð þau er yrkjum, svanteigs elda björk[2].

1. *haukasetr*, hönd, handar *Hildr*, kvenkenning. — 2. *svanteigr*, svanareitr, vatn, sjór; vatna *eldr*, gull; gulls *björk*, kvenkenning.

Til hvers skyldu, kona, taðskeglingar í vandræðum sínum vera að negla mundriða í skildi? Því að þessir daprlegu menn geta ekki forðazt háð vort.

14 (Sigmundr). Spyri karlinn hinn skegglausi greinir illra orða; þat er einsætt; vámr[1] nemi víst várt raus í tómi. Hoddveitir[2] velr taðskeglingum hölzti gott heiti af spotti; ek sem trautt vegleg líð[3] um trúða[4].

1. *vámr*, lítilmenni. — 2. *hoddveitir* = féveitir, mannkenning. — 3. *líð*, ljóð (þýzka: lied). — 4. *trúðr*, leikari, kuklari, (hér) varmenni.

Sum hdr. hafa 1. vo.: 'Ka*ll*inn spyri orða *illra*', og gæti það verið fult svo rétt sem hitt.

Karlinn skegglausi frétti nú níð þetta; það er einsætt; vesalmennið nemi það við tækifæri. Eg vel taðskeglingum helzti gott hæðinafn. Eg sem tranðla vegleg ljóð um varmenni.

**15 (Sigmundr).** Ek get taðskeglingar heiti miklu maklegast meinsleitöndum[1], neglisk síðan; ek rýf trauðr trygðir. Heiti karl skegglauss í tali seggja, enn knýtum skjal skömmu máli[2]. Ek kanna oft hugi manna.

1. *meinsleitandi*, sá er leitar öðrum meins. — 2. *að knýta skjal skömmu máli* mun vera = í fám orðum að binda enda á kvæðið.

Eg vona, að taðskeglingar heiti sem þeim meinsmönnum er maklegast og 'neglist' síðan; ég rýf trauðla trygðir. Karl heiti skegglauss í tali seggja. Enn bindum nú enda á kviðlinginn í fám orðum. Eg kanna oft hugi manna.

**16 (Skarpheðinn).** Jarðar umgerðis eisu oftveitandar[1] eru, auðsverpandi[2], einkar fúsir leita sauða. Þeir smíðandar[3] drafníða[4] hafa, seima særir[5], lítit grasbíta skyn. Ek vinn geystr geira róstu[6].

1. *jarðar umgerði*, sjór; sjávar *eisa*, gull; gulls-*oftveitandi* = sá sem oft veitir gull, mannkenning. — 2. *auðsverpandi*, mannkenning. — 3. *smíðandar* = smiðir. — 4. *draf*, sorp, saur; *drafníð*, lélegt níð, saurugt níð. — 5. *seimasærir* = gulls eyðir, mannkenning. — 6. *geira rósta*, bardagi.

**17 (Skarpheðinn).** Höfuð þetta skalt, hrotta hljómstœrandi[1], fœra Hallgerði. Kom þú, áls ferðar eldskerðir[2], orðum. Hykk[3], skíða boði[4], at þýð Þynjar logs þöll[5] muni þekkja ok skynja, hvárt þat hafi smíðat þungt níð.

1. *hrotti*, sverð; *hrotta hljómstœrandi*, mannkenning. — 2. *álsferð*, álsbraut, sjór, sjávar-*eldr*, gull; *skerðir* gulls,

mannkenning. — 3. hykk = ek hygg. — 4. *skíðaboði*, sá er býðr, gefr skíð(i), mannkenning. — 5. *Þyn*, árheiti, Þynjar *log* = árlog, gull; *þöll*, (ung) fura; gulls *þöll*, kvenkenning.

Höfuð þetta skaltu færa Hallgerði. Kom þú þeim orðum til hennar, (að) ég hygg að konan muni taka eftir og forvitnast um, hvort það muni hafa ort naprt níð.

18 (**Gunnarr Hámundarson**). Víst spurðir þú þenna vazta viggrennanda[1], harðr 'hrayggviglópr'[2], áðr hleyptuð ór garði mínum, hvárt stefnur vígstœris[3] væri réttar. Þess skal ek hefna hvessi heiftar[4]. Vér rjóðum spjör[5] blóði.

1. *vaztir*, mið, fiskimið; *vigg* (af vega) akdýr, eykr, hestr; *vazta vigg* = miðahestr, skip; skip-*rennandi*, mannkenning. — 2. *'hrayggvi'-glópr* er óljóst orð. Jón Þorkelsson getr til, að það ætti að vera hrøngvi-glópr = hávaðaglópr, enn það er óvíst; *hrökkvi*-glópr getr það naumast verið, því að harðr hrökkvi-glópr er hvað á móti öðru. — 3. *vígstœrir* = sá er eykr víg, mannkenning. — 4. *hvessir heiftar*, maðr sem vekr heift og fjandskap. — 5. *spjör*, hvk. flt. (þ. spear, e. spear) spjót.

Víst spurðir þú, glópr, mann þenna, áðr enn þér hleyptuð úr garði mínum, hvort stefnur hans væri réttar. Þess skal eg hefna á illmenninu. Eg er vanr bardögum.

19 (**Skarpheðinn**). Hér verðr þröng á þingi, þóf gengr langt ór hófi; síð man sætt sett með þjóðum; mér leiðisk þetta. Rakklegra[1] er rekkum[2] rjóða vápn í blóði. Víst tem ek ylgjar barni[3] gjarna hinn geysta gráð[4].

1. *rakklegra*, drengilegra. — 2. *rekkr*, vaskr maðr. — 3. *ylgr*, kvk., vargynja; *ylgjarbarn*, úlfr, vargr. — 4. *gráðr*, græðgi, hungr (orðið finst enn á 17. öld í Passíusálmunum). Að *temja gráðinn* = sefa hungrið.

Hér verðr þröng á þingi, þófið gengr langt úr hófi, seint munu gerðar sættir milli manna; mér leiðist þetta. Drengilegra væri mönnum að rjóða vopnin í blóði. Víst er eg fús á að sefa hið ólma hungr vargsins.

20 (Gunnarr Hámundarson). Þikkjumk, flokka sennu flýtir[1], riðinn fámennr brott ór Tungu — ek brá víst hungri hrafns á hausti; — því at ek fýsumk lýsa þat, öldu eldveitir[2] — mik dreymdi illa. Villr valr etr merg frá vargi.

1. *flokka sennu flýtir* = sá er eykr deilur milli flokka, (hér) bardagamaðr. — 2. *öldu eldr*, gull; gull*sveitir*, mannkenning.

Eg þykist hafa riðið of fámennr brott úr Tungu — eg man nú til þess er eg barðist um haustið, — því að eg vil gjarna segja frá því; — mig dreymdi illa. Villtr valr etr merg frá úlfi.

21 (Gunnarr Hámundarson). Hykk[1], darra driftar reynir[2], at þvengláðs dýnu Njörun[3] muni þikkja þat engu máli skifta. Gakk, móins jarðar myrðir[4], meir fram í geira dyn, ef Rínar leygs reið[5] skal ráða höfði mínu.

1. *hykk* = ek hygg. — 2. *darr*, spjót; *drift*, drífa, spjótadrífa = bardagi; *reynir* (annaðhv.) viðartegund (eða) reynandi (af að reyna); bardaga-*reynir*, mannkenning. — 3. *þvengláðs* = láðs þvengs = orms; orms-*dýna*, gull; *Njörun*, Ásynja; gulls *Njörun*, kvenkenning. — 4. *móinn*, ormsheiti; móins *jörð*, gull; gulls myrðir = gulls eyðir, mannkenning. — 5. *reið*, sú er reiðir, ber; *leygr*, logi, eldr, gull; gullsreið (gullbera) kvenkenning.

Eg hygg, Þorgeirr, at meynni muni þykja það engu máli skifta. Gaktu, maðr, meir fram í bardaganum, ef mærin á að ráða höfði mínu.

22 (**Gunnarr Hámundarson**). Fésjóðar várir munu eyðask, ár eldbeiðir[1], þó at gørvim eigi fleiri geirleiks stöfum geig, ef ek skal enn bœta gørvalla unnviggs runna[2] þá er hér liggja. Nem þú, mætr, mál mín ok greinir.

1. *áreldr*, gull, gullsbeiðir, mannkenning. — 2. *unnr*, alda; *vigg*, eykr, hestr; öldu hestr, skip; skips *runnr*, maðr.

23 (**Gunnarr Hámundarson**). Ekkils vallar andrs Ullr[1], standa munu nökkurir jafnir unda Rínar stefni[2] á veg mínum, áðr munim hræðask gný-jarðar girðis geisla græðendr[3], — gljúfra fösla fagra sætis gætir[4].

1. *Ekkill*, sækonungsheiti; *Ekkils völlr*, sjór; *andr*, skíð, (K. G. Nj. II, 93—94 heldr að andr sé upphaflegra enn andurr); sjávar *skíð*, skip; *Ullr*, einn af Ásum; skips-*Ullr*, mannkenning. — 2. *unda Rín*, blóðstraumr; blóðstraums *stefnir*, mannkenning. — 3. *gný-jarðar girði* = *jarðar-gný-girði*, sjór; sjávar *geisli*, gull; gulls *græðandi*, mannkenning. — 4. *fösla*, virðist ef. af fösull, enn það orð er ókunnugt. Dr. Jón Þorkelsson getr til að það sé sama sem „fasen“ á þýzku, þráðr, enn K. G. heldr að fösull gæti verið sama sem „visula“, fiskr. Hvort sem heldr væri, verðr *gljúfra fösull* að vera ormskenning; *gljúfra fösull*, ormr; orms *sæti*, gull; gulls *gætir*, mannkenning.

Nokkurir jafningjar mannsins (Þorgeirs) mega standa á vegi mínum (Kolskeggr bróðir) áðr enn eg hræðist þá.

24 (**Gunnarr Hámundarson**). Hverr dómreynir dreyrgra darra[1] hefir (nökkut) til síns ágætis. Sveigar Sága[2] drepr niðr sóma mínum. Øngr liðsráðandi[3] skal lengi lítils biðja; fenju fagrmjöls dísi[4] verðr hönd fús á venju.

1. *darr*, spjót; *dómreynir dreyrgra darra* = *reynir dreyrgra darra dóms*, sá er reynir dóm blóðugra spjóta (bardaga), mannkenning. — 2. *sveigr*, faldr eða annar

höfuðbúnaðr (sbr. Laxdælu: „Guðrún var í námkyrtli . . . ok sveigr mikill á höfði“, og Rígsmál: „Sveigr var á höfði, smokkr var á bringu, dúkr var á hálsi, dvergar á öxlum“); *Sága*, Ásynja; *sveigar-sága*, kvenkenning. — 3. *liðsráðandi*, sá er ræðr liði, mannkenning. — 4. *Fenja*, ambátt Fróða Dana konungs, sem mól gull; *Fenju mjöl*, gull; gulls*dís*, kvenkenning.

Hverr maðr hefir til síns ágætis (nokkuð). Konan drepr niðr sóma mínum. Engi maðr skyldi lengi lítils biðja. Ekki bregðr konan vana sínum.

**25 (Þorkell elfaraskáld).** Vér spurðum, hvé vígmóðr Gunnarr varðisk kjalar slóða glaðstýrandum[1] geiri fyr sunnan Kjöl. Hauðrmens sókrýrir[2] vann sextán Viðurs mána hríðar herðimeiða[3] sára, enn tvá dauða.

1. *kjalarslóð*, skipsleið, sjór; *Glaðr*, hestsheiti; sjávarhestr, skip; skips*stýrandi*, skipstjóri, mannkenning. — 2. *sókr* er óvíst hvað þýðir. Svb. Eg. í Lex. poët. gizkar á að það sé = *søgr*, eldr; *hauðrmen*, sjór; sjávareldr, gull; gulls-*rýrir*, mannkenning. — 3. *Viðurr*, Óðinn; Óðins *máni*, skjöldr; skjalda-*hríðar-herðimeiðr*, mannkenning.

Vér höfum spurt, hvé hinn hrausti Gunnarr varðist fyrir sunnan Kjöl. Hann særði sextán menn, enn drap tvo.

**26 (Þormóðr Óláfsson).** Engr sandheims sólar sløngvir[1] á Íslandi var frægri Gunnari af heiðnum lýð — hróðr er hægr. Hjalma hríðar viðr[2] nam tvá hlífrunna[3] lífi. Stála stýrir[4] gaf stórum sár tólf ok fjórum.

1. *sandheimr*, sjór; sjávar *sól*, gull; gulls-*sløngvir*, mannkenning. — 2. mannkenning. — 3. mannkenning. — 4. mannkenning.

Engi maðr á Íslandi var frægri Gunnari af heiðnum

mönnum. — Mér er létt um það að yrkja. — Hann drap tvo menn og særði sextán.

27 (**Gunnarr Hámundarson**). Dáðum rakkr dögla deilir[1], faðir Högna, sás háði benrögn[2], bjartr með beztu hjarta, mælti — sjá hjalmi faldinn hjörþilju vættidraugr[3] kvaðsk heldr vilja deyja enn vægja, valfreyju stafr[4].

1. *dögla deilir*, mannkenning, enn óvíst hvað *dögla* á að þýða. — 2. *benrögn*, bardagi. — 3. *hjörþilja*, skjöldr; *vætti-* af vætta, vega upp; *draugr*, viðr; *vætti-draugr* = lyftiviðr; skjalda-lyftiviðr, mannkenning. — 4. *valfreyju stafr* (= valkyrju stafr, skiljanlegra væri *valtreyju stafr*, brynjustafr), mannkenning.

Hinn hugprúði maðr, faðir Högna, sem var vanr bardögum, sagði svo, að hann vildi heldr deyja enn vægja.

28 (**Skarpheðinn**). Vér höfum felda fjóra dýra fleinstýranda[1]. Þeim beimum[2] skaltu of fylgja, bárulogs beiðir[3]. Kúgum karl svá at kaldráðum skjalda hlyn[4] œgi; seldu aumr auðsrunnr[5] syni Gunnars alla dóma.

1. mannkenning. — 2. *beimar*, menn. — 3. *bárulogs beiðir*, gullsbeiðir, maðr. — 4. *hlynr* (d. lön) viðr, skjalda viðr, mannkenning. — 5. *auðrunnr*, auðsviðr, mannkenning.

Vér höfum felt fjóra hrausta bardagamenn. Þeim skaltu fylgja. Kúgum kaldráðan karl svo að hann verði hræddr; seldu, aumr maðr, syni Gunnars sjálfdæmi.

29 (**Þráinn**). Þarf ekki skýringar við.

30 (**Skarpheðinn**). Auk[1] orð þín, elda síka skorða[2], munu mega ekki þessum rekkum — ek seð gjarn ulf ok örnu. Hornkerling ert, eða útigangs púta. Viðs Hernar hrings skíða Baldr[3] semr freka Óðins öldu[4].

1. *auk* = ok, og. — 2. *sík*, síki; *síka eldr*, gull; gull-

*skorða*, kvenkenning. — 3. *Hern*, ey við Hörðaland í Noregi; eyjar *hringr*, sjór; sjávar *skíð*, skip; skipa *Baldr*, skipa Áss, mannkenning. — 4. *Óðins alda*, mjöðr Óðins, skáldskapr.

Og orð þín, kona, munu ekkert megna mót þessum mönnum — eg geng fús í bardaga. Þú ert hornkerling eða útigangs púta. — Eg vanda þér ekki kveðjur.

31 (Skarpheðinn). Ek kom eigi síðar enn ér[1] til vápna sennu, því at ek lét allharðan auðs œski-rýri[2] falla. Enn því at jarl hrauð unnar elg[3] fyr Grím ok Helga, er öldu eldviðum[4] nú efni at hefna þess.

1. *ér* = þér. — 2. *auðs œskirýrir*, mannkenning. — 3. *elgr*, dýr; *unnar dýr*, skip. — 4. *öldu-eldviðr*, mannkenning.

Eg kom eigi síðar enn þér til bardagans, því að eg feldi allhraustan mann. Enn með því að jarl hrauð skip fyrir þeim Grím og Helga, er nú tækifæri að hefna þess.

32 (Skarpheðinn). Ek lét brátt ben-Gríði[1], hætta brynjum, ríða fram; vand-Gjalpar nafna[2] fyldi heldr hrafn á höldi[3]. Veitið Hrapp hríð á víðum ísi sem hétuð. Reið Rimmugýgr söng til[4] dimmum róstuhljóðum.

1. *ben-Gríðr*, öx. — 2. *Gjalp*, tröllkona; *vand-Gjalp*, viðartröllkona, viðaröx; *vand-Gjalpar nafna* = viðaröxarnafna = bardagaöx. — 3. *höldr*, maðr = Þráinn. — 4. *til* = heldr.

Eg lét brynjum skæða öxi ríða fram; hún fyldi hrafna á Þráni. Veitið Hrapp aðsókn á ísinum. Reið Rimmugýgr söng heldr dimmum ófriðarhljóðum.

23 (Skarpheðinn). Þetta erat satt né þínlíkt, landa linna leygs þollr[1]. Kennum þeygi gørvallir föður mínum.

Hyrs haf- geymir[2] mun bíða hins verra heiman, ef þat má spyrjask. Stríð stendr af stála skyndi[3].

1. *landa linni* = lindi, sjór; *leygr*, eldr; sjávar*eldr*, gull; *þollr*, viðr; gullsviðr, mannkenning. — 2. *hyrs hafgeymir* = hafhyrs geymir; *hyrr*, eldr; sjávarelds geymir, mannkenning. — 3. *stála-skyndir*, mannkenning.

Þetta er ekki satt eða líkt þér. Vér kennum þér ekki allir þetta. Lýtingr mun bíða hins verra, ef það annars verðr kunnugt. Af honum munum vér ilt hljóta.

34 (**Ókunnr höf.**) Randa reynir[1] suðr á landi gekk halda sigrtalum ryðfjónar beðs Baldrs[2] í bœnar smiðju[3]. Snjallr hjaldrs siðreynir[4] lét síðan morðhamarr[5] gjalla í hattar hauðrs steðja[6] Vetrliða skaldi.

1. *rönd*, skjöldr; skjaldareynir, mannkenning. — 2. *ryðfjón*, hatr ryðs, brýni; brýnis *beðr*, sverð. Sverðs-*Baldr*, mannkenning. — 3. *bœnarsmiðja*, munnr. — 4. *hjaldr*, orrusta; *hjaldrssiðreynir*, mannkenning. — 5. *morðhamarr*, vopn. — 6. *hattar hauðr*, höfuð, *hattar hauðrs steði*, höfuð að ofan, skalli.

Maðr (Vetrliði skáld) suðr á landi galt þögn við sigrtölum (ræðum) Þang-Brands, hafði þær ekki eftir (?). Lét Þang-Brandr (eða Guðleifr) síðan sverðið glymja á höfði Vetrliða.

35 (**Þorvaldr hinn veili**). Endils bjalfa Yggr[1] mun of senda boð Úlfi Ugga syni — mér es stugglaust við stálastýri[2], — at hann reki argan goðvarg, þanns of rignir[3] við ragn[4], fyr gnýskúta Geitis[5], enn vér annan.

1. *Endill* sækonungr; *Endils bjalfi*, brynja; *Yggr*, Óðinsheiti; brynju *Yggr*, mannkenning. — 2. *stálastýrir*, mannkenning. — 3. *rigna* ≐ ragna? — 4. *ragn* = rögn, goð. — 5. *Geitir*, sækonungr; *gnýskúti Geytis* er óvíst hvað þýðir.

Eg mun senda Úlfi Ugga syni boð — mér er meinlaust

við hann — að hann reki þann goðvarg, er illa hefir talað um goðin, 'fyrir gnýskúta Geitis' (komi honum fyrir kattarnef), enn vér munum reka annan.

36 (Úlfr Uggason). Tekkat ek[1] við tannahvarfs hleypiskarfi[2] þó at Hárbarðs véa fjarðar sunds[3] sannreynir sendi boð. Esat[4] mínlíkt, ráfáka rœkir[5], gína of flugu. Rang mál eru á gangi. Sèk við miklu meini.

1. *tekkat* ek = ek tek eigi. — 2. *tannahvarf*, munnr; *skarfr*, fugl; *tanna-hvarfs-* hleypi-*skarfr*, fluga, sem hleypt er í munn einhverjum. — 3. *Hárbarðr*, Óðinn; *vé*, heimkynni; *Hárb. véafjörðr*, guðasjár, skálda drykkr. — 4 *esat* = er eigi. — 5. *ráfákr*, skip; *ráfáka rœkir*, mannkenning.

Eg tek eigi við flugu, sem skáldið hefir sent mér af munni sínum, þótt hann geri boð. Það er ekki mér líkt að gína yfir þeirri flugu. Rangindi eru höfð í frammi. Eg varast að gera mikið mein.

37 (Hjalti Skeggjason). Þessi vísa þarf engrar skýringar.

38 (Steinunn). Mellu magfellandi[1] braut allan mátalls visund[2] fyr bjallu gæti[3]. Band[4] ráku Strandar Val[5]. Kristr hlífðit[6] varrar malmfeta[7] þás kneyfði[8] knarr, hykk[9] at guð gætti Gylfa hreins[10] lítt at einu.

1. *Mella*, tröllkona; *Mellu mögr*, jötunn; jötna*fellandi*, Þórr. — 2. *mástallr* (af már, fugl), sjór; *visundr*, villiuxi; sæuxi, skip. — 3. *bjallu* (bjöllu), *gætir*, klukku gætir, prestr. — 4. *band* = bönd, goð. — 5. *Strönd*, árheiti; *Valr*, hestheiti; árhestr, skip. — 6. *hlífðit* = hlífði eigi. — 7. *malmfeti* járnfeti, hestr; varrar hestr, skip. — 8. *kneyfa*, brjóta. — 9. *hykk*, = hygg ek. — 10. *Gylfi*, sækonungr; *hreinn*, hreindýr; dýr *sækonungs*, skip.

Þórr braut alt skipið fyrir klerkinum. Goðin hröktu

skipið. Eigi hlífði Kristr því, þá er það brotnaði; eg held að guð hafi mjög lítt gætt skipsins.

39 (**Steinunn**). Þórr brá langu Þvinnils dýri[1] Þang-Brands ór stað — hristi ok beysti[2] barðs buss[3] ok laust við jarðu. Atals grundar skíð[4] mana síðan sundfært umb[5] sjá; því at hart hregg, kent hánum, tók leggja í spánu[6].

1. *Þvinnill*, sækonungr; *Þvinnils dýr*, skip. — 2. *buss*, viðar heiti (lat. buxus, þ. busch); *barðs buss*, skip. — 3. *beysta*, berja, þriskja. — 4. *Atall*, sækonungr; *Atalsgrundarskíð*, skip. — 5. *umb* = um. — 6. *í spánu* = í spón.

Þórr brá hinu langa skipi Þang-Brands úr stað; hristi það og barði og laust því við jörðu. Mun skipið ekki síðan sjófært, því að harðr stormr, sem Þór var að kenna, tók að brjóta það í spón.

40. Ek ríð hesti hélugbarða[1], úrgitoppa[2] o. s. frv. þarf naumast skýringar.

1. *hélugbarði*, með hélað fax (sbr. Hrímfaxi). — 2. *úrgigtoppi* með úrigan, votan topp.

41 (**Móðólfr Ketilsson**). Einn stafr Níals húsa lifir þar es unnfúrs viðir[1] brunnu inni. Snjallir Sigfússynir ollu því. Goldnis sonr,[2] nú es goldinn bani hins röskva Höskulds. Eldr gekk of sjöt[3] rekka. Ljóss hyrr[4] brann í húsum.

1. *unnfúr*, eldr. — 2. *goldnis sonr*, sonr Þorgeirs gollnis (goldnis), Njáll. — 3. *sjöt*, sæti. — 4. *hyrr*, eldr.

Einn stafr Njálshúsa, Kári Sölmundarson, lifir enn, þar sem hinir brunnu inni. Sigfúss synir ollu því.. Nú er, Njáll, hefnt hins röskva Höskuldar. Eldr gekk um bekki; bjart bál brann í húsum.

42 (**Skarpheðinn**). Iðja galdrs Gunnr[1] mundit halda bráregni[2] um geirasennu[3] Mellu kindar brúar miðjungs[4].

Síðari hlutr vísunnar er aflagaðr og verðr ekki skýrðr.
1. *Iði* jötunn; jötuns *galdr*, gull; gulls *Gunnr*, kvenkenning. — 2. *bráregn*, tár. — 3. *geirasenna*, bardagi. — 4. *Mella*, tröllkona; *Mellu-kind* (afkvæmi, barn), jötunn; *jötnabrú*, skjöldr; skjaldar *miðjungr*, bardagamaðr.

Konan (líklega hugsar Skarpheðinn hér til Þórhildar konu sinnar) mun ekki fá tára bundizt, er hún hugsar um bardaga vorn.

**43 (Kári Sölmundarson).** Mér kemrat, almsíma Ullr[1], svefn á augu um allar grímur[2], — ek man bœnir bauga beð-Hlínar[3], — síz böðvar nausts brandviðir[4], brendu Níal inni á hausti. Ek em minnigr at mínu meini.

1. *Ullr*, einn af Ásum; *almsími*, bogastrengr, enn dr. J. Þ. getr til, að hér eigi að standa *armsíma* (hrings), og dr. K. G. getr til *alinsíma*. Hvað sem því líðr, er þetta karlkenning. — 2. *gríma*, nótt. — 3. *baugabeð-Hlín*, kvenmaðr (kona Kára). — 4. *böð*, bardagi; böðvar *naust*. bardaga naust, skjöldr; *brandr*, eldibrandr; skjaldar eldibrandr, skjaldareyðir, sverð; sverðviðr, mannkenning.

Mér kemr ekki, Ásgrímr, svefn á augu á nóttum síðan þeir brendu Njál inni í haust. Eg man kveinstafi konu minnar, og mér fellr aldri sú sorg úr minni.

**44 (Draummaðr).** Höggorma herði-Þundr[1] mun hefjask á landi. Menn munu sjá margar heilaborgir[2] á moldu. Blára brodda beysti-sullr[3] vex nú í fjöllum. Sveitadögg[4] mun koma á leggi sumra seggja.

1. *höggormr*, sverð; *Þundr*, Óðinn; *höggorma herði-Þundr*, mannkenning. — 2. *heilaborg*, höfuð. — 3. *sullr*, svellandi, gnýr; *bláir broddar*, vopn. — 4. *sveitadögg*, blóð.

Maðr mun hefjask til ófriðar hér á landi. Menn munu

sjá mörg höfuð hníga til moldar. Vopnagnýr mun kveða við í fjöllum. Menn munu vaða í blóði.

45 (**Kári Sölmundarson**). Hjalmskassa hvessir[1] fór ófúss af reiði út ór elris sveita[2] húsa Níals, herðimeiðr[3], þá es eld-Gunnar élrunnar[4] brunnu þar inni. Nemi menn mál mín sem ek inni. Tínum harmsakar.

1. *hjalmskass*, hjálmtröll, vopn; *hjalmskassa hvessir*, mannkenning. — 2. *elrir*, viðartegund, *elrissveiti*, reykr. — 3. *herðir*, sverð; *herðimeiðr*, sverðviðr, mannkenning. — 4. Gunnr, valkyrja; *Gunnar eldél* bardagi; *Gunnar eld-él-runnr*, mannkenning. Hdr. hafa *odd*runnar, enn élrunnar er tg. K. G. *Oddrunnar* getr þó ef til vill staðizt.

Eg fór ekki með fúsu geði, heldr reiðr, út úr reykinum í húsum Njáls, þá er mennirnir brunnu þar inni. Menn nemi orð mín. Eg tel raunir mínar.

46 (**Kári Sölmundarson**). Hvat skalt, randlinns runnr[1], frýja oss, þót rynnim — skógs hagl[2] brast á Sköglar skýjum[3] of minni sök — hinn brynjumeiðr[4] es helt blauðr til búðar með skeggit rauða, þá es hjalta hátungur[5] sungu mjök.

1. *randlinnr*, skjaldarormr, sverð; *randlinns runnr*, mannkenning. — 2. *skógr*, viðr, (hér) bogi, boga *hagl*, örvar. — 3. *Skögul*, valkyrja; Sköglar *ský*, skjöldr. — 4. *brynjumeiðr*, mannkenning. — 5. *hjaltatungur*, sverðbrandar; *hátungur*, hárómaðar tungur.

Í handritum er 3. og 4. vo. þannig:

hagl dreif skarpt á Sköglar
skýjum oss at frýja,

enn *brast skógs* er tg. K. G. í samræmi við það er í Háttalykli Snorra stendr:

hagl brast skógs í Sköglar
— skjald nefnik svá — tjaldi.

Hvað skaltu (eða þarftu) Skafti, at frýja mér, þótt eg

Síðari hlutr vísunnar er aflagaðr og verðr ekki skýrðr. 1. *Iði* jötunn; jötuns *galdr*, gull; gulls *Gunnr*, kvenkenning. — 2. *bráregn*, tár. — 3. *geirasenna*, bardagi. — 4. *Mella*, tröllkona; *Mellu-kind* (afkvæmi, barn), jötunn; *jötnabrú*, skjöldr; skjaldar *miðjungr*, bardagamaðr.

Konan (líklega hugsar Skarpheðinn hér til Þórhildar konu sinnar) mun ekki fá tára bundizt, er hún hugsar um bardaga vorn.

43 (**Kári Sölmundarson**). Mér kemrat, almsíma Ullr[1], svefn á augu um allar grímur[2], — ek man bœnir bauga beð-Hlínar[3], — síz böðvar nausts brandviðir[4], brendu Níal inni á hausti. Ek em minnigr at mínu meini.

1. *Ullr*, einn af Ásum; *almsími*, bogastrengr, enn dr. J. Þ. getr til, að hér eigi að standa *armsíma* (hrings), og dr. K. G. getr til *alinsíma*. Hvað sem því líðr, er þetta karlkenning. — 2. *gríma*, nótt. — 3. *baugabeð-Hlín*, kvenmaðr (kona Kára). — 4. *böð*, bardagi; böðvar *naust*. bardaga naust, skjöldr; *brandr*, eldibrandr; skjaldar eldibrandr, skjaldareyðir, sverð; sverðviðr, mannkenning.

Mér kemr ekki, Ásgrímr, svefn á augu á nóttum síðan þeir brendu Njál inni í haust. Eg man kveinstafi konu minnar, og mér fellr aldri sú sorg úr minni.

44 (**Draummaðr**). Höggorma herði-Þundr[1] mun hefjask á landi. Menn munu sjá margar heilaborgir[2] á moldu. Blára brodda beysti-sullr[3] vex nú í fjöllum. Sveitadögg[4] mun koma á leggi sumra seggja.

1. *höggormr*, sverð; *Þundr*, Óðinn; *höggorma herði-Þundr*, mannkenning. — 2. *heilaborg*, höfuð. — 3. *sullr*, svellandi, gnýr; *bláir broddar*, vopn. — 4. *sveitadögg*, blóð.

Maðr mun hefjask til ófriðar hér á landi. Menn munu

sjá mörg höfuð hníga til moldar. Vopnagnýr mun kveða við í fjöllum. Menn munu vaða í blóði.

**45 (Kári Sölmundarson).** Hjalmskassa hvessir[1] fór ófúss af reiði út ór elris sveita[2] húsa Níals, herðimeiðr[3], þá es eld-Gunnar élrunnar[4] brunnu þar inni. Nemi menn mál mín sem ek inni. Tínum harmsakar.

1. *hjalmskass*, hjálmtröll, vopn; *hjalmskassa hvessir*, mannkenning. — 2. *elrir*, viðartegund, *elrissveiti*, reykr. — 3. *herðir*, sverð; *herðimeiðr*, sverðviðr, mannkenning. — 4. Gunnr, valkyrja; *Gunnar eldél* bardagi; *Gunnar eld-él-runnr*, mannkenning. Hdr. hafa *odd*runnar, enn élrunnar er tg. K. G. *Oddrunnar* getr þó ef til vill staðizt.

Eg fór ekki með fúsu geði, heldr reiðr, út úr reykinum í húsum Njáls, þá er mennirnir brunnu þar inni. Menn nemi orð mín. Eg tel raunir mínar.

**46 (Kári Sölmundarson).** Hvat skalt, randlinns runnr[1], frýja oss, þót rynnim — skógs hagl[2] brast á Sköglar skýjum[3] of minni sök — hinn brynjumeiðr[4] es helt blauðr til búðar með skeggit rauða, þá es hjalta hátungur[5] sungu mjök.

1. *randlinnr*, skjaldarormr, sverð; *randlinns runnr*, mannkenning. — 2. *skógr*, viðr, (hér) bogi, boga *hagl*, örvar. — 3. *Skögul*, valkyrja; Sköglar *ský*, skjöldr. — 4. *brynjumeiðr*, mannkenning. — 5. *hjaltatungur*, sverðbrandar; *hátungur*, hárómaðar tungur.

Í handritum er 3. og 4. vo. þannig:

hagl dreif skarpt á Sköglar
skýjum oss at frýja,

enn *brast skógs* er tg. K. G. í samræmi við það er í Háttalykli Snorra stendr:

hagl brast skógs í Sköglar
— skjald nefnik svá — tjaldi.

Hvað skaltu (eða þarftu) Skafti, at frýja mér, þótt eg

rynni — skotin dundu á skjöldunum — þú, rauðskeggjaði maðr, sem flýðir huglaus til búðar þá er barizt var.

47 (**Kári Sölmundarson**). Skafta varð mart að hafti, þá es víga-Njörðu[1] þraut litt vilja at skilja; skald gekk fyr skjöldu, es matsjóðar drógu malmrógs Móða[2] flatan inn í búð at trúðar[3]. Ráð es alt af æðru.

1. *víga-Njörðr*, mannkenning. — 2. *malmróg*, málmgnýr, bardagi; *Móði*, sonr Þórs; *malmrógs-Móði*, mannkenning. — 4. *trúðr*, (hér) vesalmenni (sbr. 14. vísu).

Mart varð til að hefta Skafta, þegar hann og aðrir vildu þó gjarna skilja menn — eg, skáldið, dró mig ekki í hlé, — er matgerðarmenn drógu hann flatan inn í búð til vesalmennis. Slíkt er alt af hugleysi.

48 (**Kári Sölmundarson**). Grœðis elgs rennendr[1] höfðu at gamni brennu Níals, Gríms ok Helga. Runnar[2] unnut[3] þá rétt. Nú mun baugs hnykkjandum[4] þykkja þjóta annan veg í lyngs-björgum ljóts börgs[5] at loknu þingi.

1. *grœðir*, sjór; *grœðis elgr*, sjávardýr, skip. — 2. *runnar*, mannkenning, hálfkenning. — K. G. getr til að vo. gæti verið:

rógs unnu þat runnar.

— 3. *unnut* = unnu eigi. — 4. *baugshnykkjandi*, hringberi, mannkenning. — 5. *börgr*, svín; *lyngs björg ljóts börgs*, er þá = Svínafell. K. G. getr til að hér mætti standa:

nú mun bergs í björgum,

og ætti þá að taka saman: nú mun ljóts lyngs baugs bergs hnykkjandum þykkja annan veg þjóta í björgum; *lyngsbaugr* er þá = ormr og orms *berg* = gull og *gullhnykkjandi*, mannkenning. Þessi tilgáta er mjög líkleg.

Þeir höfðu að gamni brennu Njáls og sona hans; það

var eigi rétt. Nú mun mönnum þykja þjóta annan veg í björgum að loknu þingi.

**49 (Snorri goði).** Þessi vísa þarf eigi skýringar við, enn hún kemr þó ekki vel heim við söguna.

**50 (Kári Sölmundarson).** Hildar[1] fúsir ráfáka renn-endr[2] hrósa brennu Níals. Hvat hafa skatnar fregit til, hvé rákum? Viðheims veiti-Njörðum[3] varðat[4] goldit slæ-lega at[5] þat síðan. Hrafn gat at slíta hrátt hold.

1. *hildr*, orrusta. — 2. *ráfákr*, skip; *ráfáka rennandi*, mannkenning. — 3. *víðheimr*; gull; *víðr* er þá ormsheiti; *veiti-Njörðr* gulls, mannkenning. — 4. *varðat* = varð eigi. — 5. *at* = eftir.

Ófriðargjarnir menn hrósa Njáls brennu. Hvað hafa menn frétt af því, hvé vér hefndum hennar? Brennu-mönnum var eigi slælega goldið þat. Hrafn fekk at slíta hrátt hold.

**51. (Darraðarljóð).** 1. 3. *reiðiský*, ský sem á að reiða eða lyfta upp; *rifs reiðiský*, vefr. — 5 *grár fyrir geir-um*, grár af spjótum. — 7. *verþjóð*, mannþjóð. — 10. *Rand-vésbani*, Jörmunrekr konungr, er lét hengja Randvé son sinn.

Mikill vefr er upp settr, og veit á valfall. Blóði rign-ir. Vefr þessi er grár af spjótum og ofinn úr mönnum, enn vinur (vinkonur) Jörmunreks (valkyrjurnar) fylla vefinn rauðu ívafi.

2. 6. *darr*, spjót. — 7. *yllir*, vefjarrifr.

Sá vefr er ofinn úr görnum manna og harðkléaðr manna höfðum (mannahöfuð höfð fyrir kljásteina, kléa. Blóðug spjót eru höfð að sköftum, vefjarrifrinn er járni varinn og

hræla𝔡 (fyrirvafið fært í gegnum vefinn) með örvum. Þenna sigrvef skulum vér slá sverðum.

3. 1.—3. *Hildr*, *Hjörþrimul*, *Sangríðr* og *Svipul* eru alt valkyrjur. — 4. *toginn*, af tjúga, draga. — 5. *gnesta*, baka. — 7. *hjalmgagarr*, hjálmhundr, sverð.

Hildr, Hjörþrimul, Sangríðr og Svipul fara að vefa með brugðnum sverðum. Mun braka í sköftum og skildir munu bresta, er sverðin koma í þá.

4. 6. *folk*, fylking, orrusta.

Vindum, vindum vef Darraðar, er ungr konungr átti fyrir höndum(?) Göngum fram og í bardagann, þar sem vinir vorir skifta vopnum.

5. 6. *rönd*, skjöldr. — 7. *Gunnr* og *Göndul* eru valkyrjur.

Vindum, vindum vef Darraðar, og fylgjum síðan silklingi. Þar sjá valkyrjurnar, sem hlífðu konungi, blóðuga skjöldu manna.

6. 3. *vé vaða*, hermerki eru borin fram.

Vindum, vindum vef Darraðar, þar sem fánar hermanna eru bornir fram. Látum hann eigi deyja; valkyrjur ráða valnum.

7. 9. *oddar*, sverð.

Þeir lýðir munu ráða löndum, er áðr bygðu útskaga. Hinum ríka konungi er ráðinn dauði og jarlinn er fallinn fyrir sverði.

8. 8. *læ*, tjón; *læspjöll*, fregn um tjón; *gotar*, menn.

Og Írar munu bíða harm, sem þeim mun aldrei fyrnast. Nú er vefrinn ofinn og völlr roðinn (blóði). Fregnir um manntjónið munu berast um lönd.

9. 7. *sóknvarðar*, valkyrjur. — 8. *syngja* ætti að vera *syngva* eða *singva*.

Nú er ógurlegt að litast um, er blóðug ský dregr á himinn. Loftið mun litað manna blóði, er valkyrjurnar syngja.

10 7. *geirfljóð*, valkyrjur.

Vér kveðum fagrlega mörg sigrkvæði um hinn unga konung, enn þeir nemi söng valkyrjanna, er hlýða á og segi frá.

11. 2. *berir hestar*, berbakaðir hestar.

Ríðum hart héðan á brott berbökuðum hestum með brugðnum sverðum.

52 (Ókunnr höf.). Vas ek á Írlandi, þar es bragnar börðusk. Margr brandr gall, þar es törgur[1] mœttusk. Malmr gnast í hjalmadyn. Ek frá þeira sókn snarpa. Sigurðr fell í vigra dyn. Brjánn fell ok helt velli áðr ben tœði[3] blœða.

1. *targa*, skjöldr. — 2. *vigr*, kvk., spjót; *vigra dynr*, bardagi. — 3. *tœði blœða*, gerði blæða.

Eg var í bardaga á Írlandi. Glumdi í mörgum sverðum í þeim bardaga. Þar var snörp sókn; Sigurðr fell í bardaganum. Brjánn hafði sigr og fell áðr honum blæddi.



## Nöfn.

(Talan við nöfnin er kapítulatala).

## Leiðréttingar.

*Bls. 18 í vísunni (1): gistum á að vera* geystum. *Bls. 128 í vísunni (18): vígrennanda á að vera* viggrennanda. *Bls. 140 í vísunni (19): úr á að vera* ór. *Bls. 166 í vísunni (22): bœta á að vera* bæta: mæta—bæta. *Í sömu vísu: vegi á að vera* veg *og fölsa* fösla. *Bls. 178 í vísunni (24): hefir á að vera* hefr, *og fenju á að vera* Fenju.



**Jón Ólafsson,** ritstjóri, segir meðal annars um Íslendinga sögur: „Vér Íslendingar erum eina þjóðin í norðurálfu heims, auk Grikkja og Rómverja (Ítalíumanna), sem eigum gullaldar-bókmenntir frá fornöld. Þeirra bókmenntir eru eldri og fjölbreytilegri en vorar, en í sagnritum eigum vjer til meistaraverk, sem eigi standa á baki neinu samkynja hjá nokkurri heimsins þjóð.

Og eitt höfum vér Íslendingar fram yfir allar aðrar þjóðir, sem átt hafa klassiskar fornaldar-bókmenntir: vér höldum forntungunni svo óbreyttri enn í dag, að hver nútíðar-Íslendingur getur lesið rit forfeðranna óbreytt og skilið þau.

Þetta er svo mikilsvert fyrir þjóð vora, að það er óhætt að segja, að vjer værum orðnir að andlegum Færeyingum, ef fornsögurnar hefðu eigi verið oss þau ódáins Iðunnar-epli, sem hafa haldið við lífsafli þjóðernis vors sí-ungu“.

(Heimskringla, VII, 37).

---

## Leiðréttingar.

*Bls. 18 i vísunni (1): gistum á að vera* geystum. *Bls. 128 i vísunni (18): vígrennanda á að vera* viggrennanda. *Bls. 140 i vísunni (19): úr á að vera* ór. *Bls. 166 i vísunni (22): bœta á að vera* bæta: mæta—bæta. *Í sömu vísu: vegi á að vera* veg *og fölsa* fösla. *Bls. 178 i vísunni (24): hefir á að vera* hefr, *og fenju á að vera* Fenju.



**Jón Ólafsson,** ritstjóri, segir meðal annars um Íslendinga sögur: „Vér Íslendingar erum eina þjóðin í norðurálfu heims, auk Grikkja og Rómverja (Ítalíumanna), sem eigum gullaldar-bókmenntir frá fornöld. Þeirra bókmenntir eru eldri og fjölbreytilegri en vorar, en í sagnritum eigum vjer til meistaraverk, sem eigi standa á baki neinu samkynja hjá nokkurri heimsins þjóð.

Og eitt höfum vér Íslendingar fram yfir allar aðrar þjóðir, sem átt hafa klassiskar fornaldar-bókmenntir: vér höldum forntungunni svo óbreyttri enn í dag, að hver nútíðar-Íslendingur getur lesið rit forfeðranna óbreytt og skilið þau.

Þetta er svo mikilsvert fyrir þjóð vora, að það er óhætt að segja, að vjer værum orðnir að andlegum Færeyingum, ef fornsögurnar hefðu eigi verið oss þau ódáins Iðunnar-epli, sem hafa haldið við lífsafli þjóðernis vors sí-ungu".

(Heimskringla, VII, 37).

